# Vesturför.

Ferðapistlar

eftir

Einar Hjörleifsson.

I.

Eg hefi lofað Norðurlandi að segja því eitthvað ofurlítið af því sem fyrir mig bar í Vesturheimsför minni í sumar og haust. Í því verður engin heild. Eg ætla að eins að rabba ofurlítið við lesendur Norðurlands, eins og kunningja mína, með þeim hætti, sem skraffinnum er títt eftir ferðalög.

Eg lagði af stað 10. júlí með Ceres í blíðviðrum, og slapp við alla sjóveiki. Eg var nokkuð þreyttur þegar eg lagði af stað, og eg einsetti mér að gera ekkert annað en hvíla mig, og þá meðal annars varast allar kapp-

ræður. Nægur kostur þeirra hefði að jafnaði verið við máltíðir. Ýmsu var þar fram haldið, sem eg var ekki samdóma. Einkum var þar fjölyrt um, hver óhæfa það væri, að löggjöfin skifti sér nokkuð af áfengisbölinu. Sömuleiðis um það, hvert mein það sé, að danski læknirinn Hindhede hafi ekki verið hengdur fyrir löngu, af því að hann hefir verið að rannsaka, hvort ekki mætti komast af með langtum ódýrara viðurværi en nú tíðkast, og halda að mönnum ályktunum sínum um það efni. Enn fremur um það, hve Íslendingar, einkum Reykvíkingar, séu hemjulaust ágengir við útlendinga. Og loks um það, að á Íslandi ættu ekki hvítir menn að búa.

Eg hlustaði á þetta og ýmislegt fleira af svipuðu tægi með mestu stillingu og algerðri þögn. Þetta voru danskar skoðanir. Og eg fann enga köllun hjá mér til þess að skifta mér minstu vitund af þeim.

Eg hafði ekki annað fyrir stafni en þessi venjulegu verk, sem ferðamenn

leggja stund á úti á sjónum: að mat-
ast, lesa ofurlítið og horfa út í sjón-
deildarhringinn. Meðan Ísland stóð upp
úr sjónum, var nóg að sjá, nóga tign
og nóga fegurð, í sólskininu og heið-
ríkjunni. Líka nóg af botnvörpungum.
Eg taldi þá þrettán á örlitlu svæði,
nokkuð vestur af Vestmanneyjum, rétt
upp í landsteinum, sýnilega langsam-
lega í landhelgi. Og eg fór að hugsa
um, hvort þessi fjöll mundu ekki verða
»konungleg« eftir þrjár vikur, eins og
þjóðin, sem hefst við innan um þau
— hvort — Öræfajökull að minsta
kosti mundu ekki fá einhvern konung-
legan heiðurstitil. Mér fanst vel við eiga,
að hann yrði að minsta kosti sæmdur
titlinum: »Konunglegt Himinfjall«, svo
að einhver svipur yrði í orði kveðnu
með honum og dönskum reginfjöllum.
Og eg fór líka að hugsa um, hvað
þakklátir botnvörpungarnir ættu að
vera hinni dönsku strandgæzlu, ef eng-
ir væru það aðrir.

II.

Eg kom til Leith snemma morguns. Þar og í Edinborg dvaldi eg fram undir kvöld. Eg hafði komið þangað nokkurum sinnum áður, og séð alt, sem mér hafði leikið hugur á að sjá, og þar er á boðstólum — nema eitt. Eg þori naumast að stynja því upp innan um öll íslenzk nútíðarvísindi og íslenzka vitsmuni. Það var nokkurs konar *spákona*.

Eg hafði heyrt mikið af henni látið, og furðulegar sögur sagðar af henni. Ung stúlka átti að hafa komið til hennar, systir brezks manns, sem mikil viðskifti hefir við Íslendinga. Stúlkan vildi láta spá fyrir sér. Konan neitaði að gera það fyr en eftir mánuð. Stúlkan sótti málið fast. Konan sat fast við sinn keip. Að mánuði liðnum var stúlkan dáin.

En þó að eg vissi ekki sönnur á öllum sögum, sem eg hafði heyrt af konunni, vissi eg það, að vinur minn hér í Reykjavík, einn af mest metnu

borgurum höfuðstaðarins, hafði komið til hennar. Og hann sagði mér alveg furðulegar sögur um það, hvað hún hefði getað komið með úr lífi hans.

Mér lék hugur á að hitta þessa konu, og eg gerði það. Eg vissi, að hvað sem hún kynni að vita, þá gat hún ekkert vitað um *mig*. Gat hún þá sagt nokkuð af viti um mig? Mig langaði til þess að komast að raun um það.

Hún auglýsir í blöðunum, hvenær hún veiti gestum viðtöku. Ekkert þarf að gera henni viðvart fyrir fram. Og eg gerði það ekki heldur. Eg kom inn af götunni sem hver annar alókunnur maður í þessari stóru borg.

Mér var vísað inn í biðstofu; þar var enginn fyrir. Eftir drykklanga stund kom konan inn í dyrnar og bauð mér inn í aðra stofu. Eg sagði ekki nokkurt orð, en fór þangað, sem mér var vísað. Konan var á að gizka á fimtugsaldri, fölleit mjög, en ekkert óhraustleg samt.

Í stofunni sem við komum nú inn

í, var eldur á arni. Sólskin og sunnanblíða var úti, svo að hitinn var mikill þarna inni. Hún lét mig setjast á stól við stofuborðið og settist sjálf á annan stól hægra megin við mig. Hún tók í hægri höndina á mér og hélt altaf utan um hana, meðan hún talaði við mig. En vinstri höndina á mér lét hún liggja fyrir framan sig á borðinu. Jafnframt hafði hún glerkúlu (»krystal«) fyrir framan sig. Hún virtist horfa til skiftis í glerkúluna og í vinstri handarlófann á mér.

Kristallasýnir eru með hinum furðulegustu fyrirbrigðum sálarlífsins. Þær hafa víst tíðkast frá ómunatíð. Einn af helztu vísindamönnum á Englandi á 16. öldinni, dr. Dee, ritaði um þær Hér á landi hafa þær verið kunnar. Það sýna sögurnar af Torfa á Klúkum. Tilbreytnin að eins sú hér — sem líka er altíð í öðrum löndum — að horfa í vatn í íláti í stað krystals. Sumir þurfa ekki annað en horfa í vel fægða borðplötu, eða aðra skygða fleti, til þess að sjá einhverjar kynjamyndir. Þessar

sýnir hafa verið rannsakaðar af mikilli vísindalegri nákvæmni á síðari áratugum, einkum á Englandi. F. W. H. Myers gizkar á, eftir sinni reynslu, að hér um bil 20. hver maður muni geta tamið sér að sjá þær, og hann segist ekki þekkja nein önnur dularfull fyrirbrigði sálarlífsins, sem séu hentugri til rannsóknar í tilraunastofum vísindamannanna — meðfram fyrir þá sök, að slíkar tilraunir virðist vera með öllu hættulausar.

Þessar sýnir eru með ýmsum hætti. Stundum virðist koma fram myndir af endurminningum, sem sokkið hafa niður í undirvitundina, geymst þar og dulizt. Stundum birtast myndir af því, sem fyrir sjáöndunum vakir á þeirri stundinni, annaðhvort þeim vitandi eða óafvitandi. Og stundum verður ekki annað séð, en að sýnirnar standi í sambandi við fjarskynjunar eða skyggnigáfu, og að vitneskja fáist með alt öðrum hætti en þeim, sem venjulegast er um mennina. Alt þetta hafa menn athugað og menn hafa líka komizt

að raun um það, að þessar sýnir standa ekki í sambandi við neina veiklun taugakerfisins né æsing ímyndunaraflsins. En hins hefir enginn getað grein gert, hvernig á því standi, að þessar sýnir skuli hvergi koma fram, nema í krystöllum eða vatni eða skygðum fötum, né heldur þess, hvernig á því standi, að þær koma *þar* fram.

Eg hverf þá aftur til konunnar, sem sat þarna með krystalinn og höndina á mér á borðinu fyrir framan sig. Eg hafði enn ekki sagt nokkurt orð, og hún tók til máls. Fyrst kom lýsing á lunderni mínu, allnákvæm að eg hygg, að hún hafi verið mjög nærri lagi. Eg sleppi henni hér, af skiljanlegum ástæðum, skal að eins geta þess, að hún sagði, að eg hefði alveg óvenju-ríka tilhneiging til þess að kynna mér það, sem dularfult væri í tilverunni. Tvíkvæntur sagði hún að eg væri, hefði skamma stund átt fyrri konuna, en nokkuð mörg ár hina síðari. Hún lýsti báðum konunum að nokkru, og lýsingin var rétt, það sem hún náði. Með-

an eg hefði verið milli kvenna, hefði þriðja konan, eitthvað 36 ára gömul, verið óvenjumikið riðin við líf mitt. Það var satt, eg naut um þær mundir hinnar mestu ástúðar einnar af hinum ágætustu konum Vestur Íslendinga. Þrjú börn sagðist hún sjá að eg ætti á lífi með síðari konunni, en hún gæti ekki sagt með vissu, hvort þau kynnu að vera fleiri. Hún kvaðst sjá, að eg hefði komið til Bandaríkjanna, og að eg kæmi þangað bráðlega aftur. Innan 7 daga yrði eg kominn út á haf, hún sagðist sjá mig á skipinu. Nýlega hefði eg hætt við það starf, sem eg hefði mest fengist við um æfina. Veikindi sæi hún að kæmu upp á heimili mínu, meðan eg væri að heiman, en enginn mundi deyja. Um það var hún svo sannspá, að sex manns lögðust á heimilinu í fjarvist minni.

Alt sagði hún þetta hiklaust, eins og hún talaði af öyggjandi vissu. Enga tilraun gerði hun til þess að fá neinar vitneskjubendingar frá mér, enda fékk hún þær engar. Og þetta er ekki

nema svipshorn þess, sem hún sagði. Hún sagði ýmislegt fleira, sem ekki er þess eðlis, að það verði sett í blöð. Alt sagði hún rétt, að því leyti, sem eg gat vitað.

Eg legg engan dóm á það, hvernig konan hefir getað farið svo nærri um það, sem hún var að tala um. Enda veit eg ekkert um það. Eg skýri að eins frá því, sem fyrir mig bar.

III.

Vesta kom til Leith sama morguninn eins og Ceres. Þar hitti eg Magnús Markússon og tæpa 50 útflytjendur. Þeir héldu áfram ferðinni til Glasgow árdegis, en eg fór ekki fyr en undir kvöldið, eins og eg hefi áður sagt. Eg ætlaði að hitta þá um kvöldið, en mér hafði verið sagt skakt til um staðinn, þar sem þeir yrðu, svo að mér tókst það ekki. Svo var áliðið dags, þegar eg kom til Glasgow, að skrifstofur Allanlínunnar voru lokaðar. Eg ráfaði lengi fram og aftur um strætin, til þess að

reyna að fá vitneskju um, hvar innan geymdi útflytjendur sína. En eg varð einskis vísari. Eg var alókunnugur, og hafði ekkert kynt mér um gistihús þar.

Hafði annari stundu fyrir miðnætti var eg orðinn dauðþreyttur og bað lögreglumann að vísa mér á einhvern sæmilegan stað, þar sem eg gæti sofið um nóttina. Hann tók því vel, og fór með mig inn í álitlegt hús í veglegum hluta borgarinnar. Fyrst héldum við upp stiga. Ljós var þar ekkert. Þá hringdi lögreglumaður. Hurð var lokið upp, og fylgdarmaður minn talaði við einhvern kvenmann í myrkrinu, bað hana að hýsa mig um nóttina. Hún sagði, að menn væru í öllum sínum herbergjum, en vildi eg sætta mig við það að sofa í sama herbergi sem annar maður væri háttaður í, þá væri mér það velkomið. En eg nenti ekki að fara að leggja af stað aftur og gekk að boðinu.

Konan vísaði mér inn og kveikti ljós. Eg sá þá, að hún var ferleg ásýndum, gömul og hrukkótt, eineygð

og óhrein með svo miklum afburðum, að eg minntist þess ekki að hafa séð neinn komast öllu lengra í þeirri grein, þeirra er ekki hafa verið í kolavinnu.

Eg varð einn eftir í herberginu ofurlitla stund og litaðist um. Húsgögnin voru orðin gömul, en höfðu verið góð í æsku. Þar voru legubekkur og hægindastólar og fleira af sætum. Eg fór að skygnast um eftir manninum, sem mér hafði verið sagt, að væri háttaður þarna, en eg sá hann hvergi. Þá varð mér litið á hurð, sem stóð í hálfa gátt. Eg lauk henni upp. Þar svaf maður í lokrekkju eða skoti innan við hurðina. Hún var sýnilega höfð opin til þess að maðurinn skyldi ekki kafna.

Kerling kom inn aftur, lék á als oddi og var ekkert annað en alúðin. Hún spurði mig hvaðan eg væri. Eg sagði henni það. Henni þótti gott að heyra að eg væri Íslendingur. Íslendingar væru víst góðir menn. Einu sinni hefði íslenzkur skraddarapiltur verið í híbýlum hennar. Hann hefði verið ágætur. Hún hefði stuðlað að því að

hann fengi atvinnu. Þá atvinnu hefði hann enn.

Nú þótti henni verst, að hún gæti ekki veitt mér þau þægindi, sem hún fegin vildi, og eg mundi ætlast til. En nú skyldi hún segja mér nokkuð. Alt væri undir því komið, með hverjum hug eg þægi það, sem eg gæti fengið. Um þá menn færi í raun og veru alt af vel, sem þægju það með góðu, sem lífið byði þeim. Eg sagðist þiggja alt með góðu.

Ef fór að hugsa um þessa kerlingu og lífspeki hennar nokkurum mánuðum síðar. Eg var þá á heimleið, og sat að snæðingi í einhverri veglegustu gistihöllinni í Montreal. Í þessari gistihöll var alt fult af þjónum sem ekki virtust bera annað fyrir brjósti en að þóknast gestunum, eins og títt er um slíka staði í stórborgunum. Og rétt til dæmis um það, hvernig séð var fyrir þörfum og óskum gestanna, skal eg geta þess, að talsími var í hverju svefnherbergi. Eitt af því var alt annað. Ungur maður, einkar vel búinn, sat við

borðið hjá mér. Eg tók eftir því, að einkennilegur geðvonzku-svipur var utan um munninn á honum. Og áður en mig varði, var hann orðinn stórreiður við þjóninn, sem bar á okkar borð. Gesturinn hafði beðið um flóaða mjólk með kaffinu. Þetta hafði þjónninn misskilið og komið með óflóaðan rjóma. Auðvitað sagðist þjónninn laga þetta tafarlaust. En gestinum veitti samt örðugt að láta sefast. Auðsjáanlega fanst honum yfirsjónin ófyrirgefanleg. Hann hafði orð á því við mig að þetta væri mjög lélegur staður (very inferior place.) Eg sagðist hafa heyrt, að þetta væri ein af beztu gistihöllum í Canada, og að hér færi einstaklega vel um menn. Hann hristi höfuðið af mestu sannfæringar kergju. Eg fór ekki frekara út í það mál. En eg hugsaði til kerlingarinnar í Glasgow, og fann, að þessi ungi maður gæti mikinn vísdóm af henni numið.

Og þá hverf og aftur að gistingunni hjá kerlu, þó að ekki sé frá merkum atburðum að skýra. Eg hafði nær

því ekkert nærst um daginn, og eg spurði hana, hvort eg gæti fengið nokkuð að borða — þó að eg gæti, sannast að segja, hugsað mér fýsilegri frammistöðukonu. Hún tók því lett, og færði mér eftir dálitla stund steikta bita af svínsæri, brauð og smjör, og alveg furðulegan drykk, sem hún kallað »kaffi«. Korgurinn og vatnið og mjólkin höfðu verið soðin saman, og úr því hafði orðið grautur, sem enginn getur sér hugmynd um, annar en sá sem reynt hefir. Kerling lét mikið af því, hvað sér hefði tekist vel að búa til kaffi þetta skiftið. Eg samsinti því en lét liggja milli hluta hvað eg *hugsaði*. Að máltíðinni lokinni bjó hún um mig, og eg fór að sofa.

Eg svaf lítið og fór snemma á fætur. Kerling þó miklu fyr. Hún sagðist aldrei þurfa að sofa meira en 4 stundir í sólarhring. Eg fór inn í eldhús til hennar og laugaði þar andlit mitt og hendur undir vatnsbununni. Gestirnir komu þangað hver af öðrum í sömu erindum. Eldstóin var í meira lagi forn-

fáleg, og virtist kerling ekki eiga neinn ketil. Hún hitaði vatn í te handa mér í ofurlítilli tinkrús, sem sett var alveg ofan í eldinn. Reykpípa var engin upp úr stónni. Reykurinn fór beint upp úr eldholinu og upp í reykháfinn ... það af honum, sem ekki fór út um eldhúsið. Rúm kerlingar var í skoti í eldhúsinu. Undir því voru 7 hundar, gullfalleg tík, sem hún sagði að hefði fengið verðlaun, mig minnir mörg, og 6 hvolpar hennar. Kerling hafði mikinn hug á að selja mér einhvern hvolpinn. Það væri mér mikill og greiðfær gróðavegur. Þessir hundar væru óvenjulegt metfé, eins og eg gæti séð. Eg sá það og þakkaði kerlingu kærlega boðið og næturgreiðann. En hundlaus fór eg þaðan um morguninn.

Eg var ánægðari með gistinguna en eg mundi hafa verið, ef mér hefði verið vísað inn í nýtízku-gistihöll. Eg hafði fyrirhafnarlaust og alveg óvænt orðið dálítið fróðari en áður um híbýlahættu alþýðufólks í mestu borg Skota. Eg benti á það af nýju, að eg hafði ekki

gist í neinni öreigasmugu. Húsið var við veglegt stræti í miðri borginni. Og að utan varð ekki annað séð, en að þar mundu hafast við auðmenn einir

IV.

Íslenzku útflytjendurnir voru flestir efnisfólk á bezta aldri. Þar á meðal voru Baldur Sveinsson stúdent og sonur síra Árna Jónssonar á Skútustöðum Báðir gerðu þeir ráð fyrir að hverfa heim aftur að fám árum liðnum, þegar þeir hefðu aukið menning sína og þroska vestra. Sonur síra Árna er í Wesley skólanum í Winnipeg í vetur En Baldur mun hafa farið til frænda síns, einhleyps efnamanns, sem hafði boðið honum til sín, og á heima ekki all-langt frá Winnipeg. Í þessum hópi voru og öll börn Sigtryggs í Kast hvammi í Laxárdal í Þingeyjarsýslu. Þau voru öll upp komin Einn af sonum hans hafði áður dvalið í Vestur heimi, en dóttir hans á Englandi Faðir þeirra var einn af heldri bændum Suður-

Þingeyjarsýslu og var sjálfur með í förinni.

Einna tíðræddast var mönnum um tvo röskna menn, sem vestur voru að flytjast. Annar þeirra var úr Eyjafirði, hann var farinn mjög að heilsu og þreytulegur. Bróðir hans í Norður-Dakota hafði sent honum fargjald og boðið honum til sín. Og karl hlakkaði víst til, nú var honum óhætt, það sem eftir var æfinnar, og nú átti hann ekki annað en ánægju í vændum. Þá vill honum það slys til að fá sér heldur mikið í staupinu fyrsta kvöldið á Vestu, þegar hann er að kveðja fornar slóðir, engum kom til hugar að gæta hans. Og hann lá úti á þilfarinu í kalsaveðri um nóttina. Það var honum ofraun. Og alla leiðina vorum við með öndina í hálsinum út af því, að honum yrði snúið aftur. Fyrst hafði læknir skoðað hann á Seyðisfirði. Það gekk eins og í sögu. En málið vandaðist, þegar til Glasgow kom. Þar biðum við 4½ dag eftir skipi. Og alt af var maðurinn sárþjáður. Auðvitað var hann

óflytjandi sem útflytjandi eftir lögum Vestmanna, og við sjálft lá, að hann yrði sendur aftur heim frá Skotland. Sigfús Eimundsson var þar staddur, hafði komið með Vestu. Hann syndi fram á það, sem var a veg satt, hver hætta væri að senda manninn aftur, láta hann sæta hjúkrunarleysinu á skipum Sameinaða gufuskipafélagsins. Það mundi að öllum ikindum fara með hann. Loks var afráðið að láta hann halda áfram. Hann var settur í spítala á útflutningsskipinu og stundaður af alúð af lækni og þjónustumönnum. Þegar til Quebec kom, var enn ein óttahviðan fyrir höndum. Þar varð hann enn að komast gegn um læknisgreipar. Karl reyndi að bera sig sem borginmannlegast og ganga sem fattastur. Og hann slapp út úr þeirri eldraun. En síðar um daginn svarf vanheilsan fast að honum. Við mistum af honum í mannþraungunni og ysinum á járnbrautarstöðinni í Montreal. Þar var skift um lestir, og mönnum var sagt að hraða sér úr lestinni, sem frá Quebec hafði

komið, og inn í bíósainn. Í bíósainum sökudum við karls og fórum að leita. Hann var þá lagstur fyrir á gangstéttinni, með poka sinn undir herðunum.

Til Winnipeg komst hann. En, eftir því sem mér var sagt, ekki lengra. Bandaríkjastjórn lætur athuga vandlega þá menn, sem ætla sér að flytjast inn í hennar land. Hún hefir fengið svo mikið af ófýsilegum innflytjendum, að ekki er orðið við lambið að leika sér, ef fulltrúum hennar þykir eitthvað grunsamt um komumenn. Og karlinn okkar kyrsettu þeir. Hann fékk ekki að leita skjóls hjá bróður sínum þennan stutta tíma, sem hann virtist eiga eftir. Ferðin hafði verið honum örðug. Og ferðalokin fremur dapurleg. En væntanlega sér bróðir hans um það, að hann bresti ekkert í Winnipeg, þó að hann gæti ekki náð honum til sín.

Hinn karlinn var hressari. Ein sveitin norðanlands hafði sent hann vestur með konu og fjögur börn. Karl hafði verið svo örðugur, að sveitin hafði

séð sitt óvænna, og fyrir því tekið þetta ráð. En hún hafði gert hann úr garði með sæmd. Hún hafði beðið myndarbónda vestra að veita honum viðtöku og leiðbeina honum. Hún hafði búið hann út með mikinn og góðan mat. Og hún hafði sent með honum 1000 krónur.

Karl var mikill maður vexti, digur hvar sem á hann var litið, þó einkum um herðarnar, og að öllu stórfeldur. Honum þótti gott að vera á skipi Allanlínunnar, eins og reyndar öllum, sá vitnisburður farþega var einróma, að meðferðin öll á fólkinu væri hin ákjósanlegasta. Það eitt þótti karli vanta á fullsælu þessa heims, að brennivín var ófáanlegt. Því hafði verið afstýrt, að karl fengi nokkurn þess konar glaðning á skipinu með þeim hætti þótti, af undanfarinni reynslu, bezt tryggingin fengin þess, að alt væri kyrt og hljótt og með frið. En maturinn þótti honum fyrirtak. Og karl vildi hafa mat sinn en engar refjar. Meðan á landferðinni stóð, kunni hann því

hið versta, að Magnús Markússon skyldi ekki láta vagnlestina staldra við, oftar en hún gerði, til þess að kostur væri á að fá sér nokkura næringu. Við vorum í skyndilestinni, sem fer frá Montreal til Kyrrahafsins. Því var stungið að karli, að vera mætti, að Magnús Markússon ætti ekki fult vald á lestinni. Það þótti karli hart, að M. M., sem væri þó sendimaður stjórnarinnar, fengi ekki ráðið svo litlu. Hann hafði orð á þessu einu sinni sem oftar, þegar hann sat að snæðing. Hann hafði þá meðal annars fyrir framan sig brauð og smjör, harðan fisk og hangikjöt, og fleira, sem hér þykir hnossgæti. Magnús Markússon át þess þá getið, að honum virtist hann ekki alveg bjargarlaus.

»Heldurðu að eg kalli þetta bölvað brazl *mat*?« svaraði karl.

Hann sýndi það tvent, þegar til Winnipeg kom, að hann hafði ekki ávalt soltið og að varúðin, sem hafði verið viðhöfð á skipinu, var ekki óhyggileg. Karl beið þar í innflytjenda-

húsinu eitthvað tvo daga eftir járnbrautarlest. Í Winnipeg er gott til öl-fanga, og karl hafði farið út í borgina til þess að fá sér hressingu. Í þeirri ferð villtist hann og vissi ekki hvað hann fór. Lögreglumaður tók eftir honum, veitti honum eftirför, klappaði á öxlina á honum og sagði eitt hvað við hann. Karl þótti þetta hrognamál, sem við sig væri talað, afskifti lögreglumanns með öllu óþörf og ískyggileg, og hann sjálfur alls ekki skyldugur til að þola slíkt af ókendum manni. Hann rak lögreglumanni svo óþyrmilegan löðrung, að hann féll. Og þá lét karl kné fylgja kviði. Samt fekk lögreglumaður svigrúm til þess að blása í pípu sína. Og embættisbræður hans flyktust að. Karl varðist knálega. En enginn má við margnum. Og leikslok urðu skjót. Karl var ofurliði borinn og sat í járnum, áður hann varði. Næstu nótt mun hann hafa hafst við í fangelsisklefa. En morguninn eftir var honum bjargað úr klípunni.

V

Spákonan í Edinborg hafði sagt mér, að innan viku yrði eg kominn út á haf, eins og áður er sagt. Hún varð sannspá um það. En alt að fimm sólarhringum varð eg, ásamt íslenzku útflytjendunum, að bíða í Glasgow eftir Ionian, einu af skipum Allanlínunnar.

Morguninn, sem eg fór frá spákerlingunni með hundana sjö, fluttist eg í gistihús við Argyle-stræti, eitt af aðalverzlunar-strætum borgarinnar. Skrautlegt var það ekki, eftir því sem títt er í stórborgum, en stórar stofur samt handa gestum, setusalur, reykingasalur og borðsalur, og gisting að öllu hin viðfeldnasta. Þar var eg samvistum við Magnús Markússon útflutningaagent og Sigfús Eymundsson bóksala og umboðsmann Allanlínunnar.

Sigfús Eymundsson var þar gamal kunnugur, hafði gist þar um mörg, mörg ár á ferðum sínum í útflutningaerindum. Stúlka, á að gizka um þrítugt, stóð fyrir veitingunum. Hún hafði alist upp þar í gistihúsinu og S. E.

hafði þekt hana, síðan hún var ofurlítið barn. Nú var hún orðin hávaxinn kvenmaður og þrekin að sama skapi, og að öllu hin konulegasta. Eðlilega vék hún einkum kunnuglega að S. E. En var annars vingjarnleg og kurteis við alla.

Mér er þessi stúlka einkum í minni vegna svipsins, sem á hana kom einu sinni. Á borði í reykingasalnum var stór bók. Þar var gestum ætlað að rita vottorð sín um gistihúsið, eins og í Valhöll, og ef til vill í fleiri gistihúsum hér á landi. Eitt kvöldið fór S. E. að blaða í þessari bók, kallaði þá til mín og sagðist skyldi sýna mér nokkuð. Allir, sem ritað höfðu á ensku í bókina, höfðu gert það vel og kurteislega. En fjöldi af Norðmönnum hafði líka komið þangað og skrifað þar margar og langar klausur. Og ýmsar þeirra voru svo ljótar, að furðu gegndi, — alls konar óþverra haugað þar saman. Við fórum til stúlkunnar, og skutum því að henni, að bezt mundi að hafa ekki þessa bók á glámbekk. Hún leit

á okkur spurnaraugum. Við sögðum, að hitt og annað væri ljótt í henni á annari tungu en hún mundi skilja.

Ég man glögt og sjálfsagt lengi eftir gremjunni og undruninni, sem var í svipnum á stúlkunni, þegar henni var farið að skiljast þetta — gremjunni út af því að hún skyldi hafa látið þetta liggja þarna til sýnis mánuðum saman, og undruninni út af þeim mikla ruddaskap hugarfarsins, sem til þess þarf að vera að rita þetta. En þeir, sem kunnugt er um ófþverrann, sem einhverjum karlmönnum þykir ánægja að skrifa á veggina á afviknum stöðum, í flestum eða öllum löndum, þeir furða sig ekki á því, að til séu þeir menn, sem ekki láta gistihúsabækur ónotaðar til slíks gamans, þegar þeir geta gert það á tungu, sem húsráðendur skilja ekki. Eins og nærri má geta, var stúlkan ekki sein á sér að leggja af stað með bókina. Og ég þori að fullyrða, að af þeirri bók hefir enginn gestur haft gaman né skapraun framar.

Dagarnir liðu skjótt í Glasgow. Mannvirkin eru þar afar-mikil, og umhverfið skínandi fagurt. Eg var svo heppinn að hitta embættismann af pósthúsinu þar, Mr. Barnett að nafni, sem nokkuð hafði fengist við rannsókn dularfullra fyrirbrigða, enda var hann alsannfærður spiritisti. Þegar hann varð þess vísari, að eg hefði kynt mér rannsóknirnar töluvert og gert tilraunir, sem nokkuð söguleg-ur árangur hefði orðið af, vildi hann einskis láta ófreistað, til þess að dvölin í Glasgow yrði mér sem ánægjulegust. Öllum stundum, sem hann gat, var hann að sýna mér eitthvað af þeirri prýði borgarinnar, sem mest er um vert að sjá, og þá jafnframt að rabba um rannsóknirnar, sem voru honum í meira lagi hjartfólgnar. Hann sagði spiritista í Glasgow um 5000 um þær mundir. Enginn þeirra sagði hann að bragðaði áfengi. Og óðum væri þeim að fjölga.

## VI.

Ferðin yfir Atlantshafið var hin ánægjulegasta. Hver dagurinn öðrum fegurri. Og ekki kendu sjóveiki nema örfáir. Enda vistin á skipinu hin ákjósanlegasta. Samt var skipið, sem flutti okkur, Ionian, ekki talið hafa nema 1. farrými. En vandfýkinn maður hefði það verið, sem fundið hefði að nokkuru, sem farþegum var boðið á 2. farrými, sem svo var nefnt. Og mikill væri munur á ferðum milli Íslands og annarra landa, ef kostur væri jafn-mikilla þæginda á þeim skipum, sem hér eru á ferðinni.

Hvergi veitir mönnum jafn-auðvelt að kynnast eins og á skipum, ef heilsan er í góðu lagi. Tilhneigingin til þess að vera vingjarnlegur við náunga sinn, sem með flestum mönnum býr, þó að hún fái misjafnlega notið sín, kemur einna ríkast fram, þegar ekkert er umhverfis mann annað en hafið og himininn. Ekkert er að gera. Og daglegum áhyggjum reynir hver maður að hrinda frá sér og lauga sig í hvíldinni.

Við Magnús Markússon og systurdóttir hans frá Sauðárkrók sátum saman við borðið. En næst okkur sat mið aldra kona, hávaxin, fölleit með afbrigðum, góðleg og ein síns liðs. Ég minnist rækilega á hana bráðum. Frændkona M. M. var víst sá farþeginn, sem almennasta athygli vakti fyrsta daginn. Ekki eingöngu vegna þess, að hún var barnung, hæversk og prúðmannleg, bauð af sér bezta þokka og talaði ekki ensku, sem allir aðrir gerðu á þessu farrými. Heldur jafnframt vegna þess, að hún var í íslenzkum búningi, með skotthúfu og í upphlut. Hvar sem henni brá fyrir, sneru menn sér við, meðan þeir voru að venjast þessu. Enginn virtist hafa séð þennan búning fyr. Og það var eins og kvenfólkið brynni í skinninu eftir að mega gera henni einhvern greiða, og helzt handfjalla hana, eins og lítið barn eða brúðu.

Einu sinni, þegar ég kom út á þilfar fyrsta kvöldið, sá ég fölleitu konuna sitja þar á stól fjarri öðrum. Ekki

leyndi það sér á svipnum, að hana langaði til þess að fara eitthvað að tala. Eg yrti á hana, og hún tók því einkar létt. Hún var frá Hamilton í Ontario í Canada, borin þar og barnfædd, og hafði nú farið að sjá England fyrsta sinn á æfinni. Ógift var hún. Bróðir hennar var sambandsþingmaður í Ottawa, og sjálf hafði hún synilega fengið það uppeldi, sem títt er um dætur einaðra manna í borgunum. Sumt sagði hún mér af högum sínum þetta kvöld, sumt síðar. Við urðum góðir kunningjar.

Hún innti eftir, hvaðan mig hefði borið að skipinu. Eg sagðist koma frá Íslandi. Henni þótti afar merkilegt að hitta mann, sem þangað hefði komið. — »Þar eru engin þorp«, sagði hún. Jú, eg sagði að þar væru þorp. Hún bar þá ekki á móti því, að svo kynni að vera, en eg sá á svipnum, að henni lá við að vefengja það. »Hvaða mállyzka er töluð þar?« spurði konan. Eg sagði, að við töluðum enga mállýzku þar, heldur sjálf-

stæða tungu, sem kölluð væri íslenzka. — »Eg á ekki við yður,« mælt konan. »Eg á við þarlenda menn« (the natives).

Eg sagðist vera þarlendur maður »Eigið þér þá þar heima?« Já, eg sagðist eiga þar heima. »Líka á vetrum?« »Já, líka á vetrum.« — Eg spurði hana, hvort hún hefði haldið, að Íslendingar væru af Eskimóa-kyni. »Já,« sagði hún, »eða einhver tegund af Löppum.« En það væri víst einhver misskilningur, bætti hún við dálítið vandræðalega. — Eg sagði henni nokkuð af uppruna Íslendinga, og henni þótti það furðu-merkilegur fróðleikur.

Hún spurði, á hverju menn lifðu á Íslandi. Eg sagði henni af helztu atvinnuvegunum. — »Hvernig geta menn haft sauðfé þar?« spurði hún. Eg sagði henni, að með féð væri farið líkt og í öðrum löndum. »Hvernig er það hægt?« sagði hún, »þar sem ekkert gras er á landinu.« — Eg sagði henni af íslenzku grasi, sumstaðar á Íslandi væri sauðfé jafnvel á beit allan veturinn, og naumast tæki til að hýsa

það. Hún hlustaði á þetta kurteislega og leit við og við á mig góðlátlega. En svipurinn var mjög líkur á henni eins og eg hefi séð á elagjörnum mönnum, þegar þeim hefir verið sagt af dularfullum fyrirbrigðum. Hún hafði sýnilega stöðugan beyg af því, að eg væri að leika á trúgirni hennar. En ekki hætti hún að spyrja.

Hana langaði til að vita, hvernig híbýlum væri háttað á öðru eins landi og Íslandi. Eg sagði henni nokkuð af því. Og hún trúði mér fyrir því í samræðu ok, að hún hefði haldið, að landið væri alt ísi þakið sumar og vetur, að menn lifðu þar einkum á einhverjum veiðum; hún vissi ekki hverjum; og að menn leituðu sér ekki húsaskjóls þar með öðrum hætti en þeim að grafa sig inn í hóla. »En þetta er víst alt misskilningur,« sagði hún að lokum.

Meira furðaði mig samt á því en þessu öllu, að konan hafði aldrei heyrt þess getið, að nokkur Íslendingur hefði nokkuru sinni til Canada komið. Manitoba er næsta fylkið vestan við Ontario.

Og í Manitoba hefir Íslendinga sannarlega verið að miklu getið. Eg bendi á það aftur, að konan var engin hérvillingur. Hún var skýrleikskona, víðlesin og vel ment. Svona er torsótt leið þekkingarinnar inn í hugi manna, þeirrar þekkingar, sem hvorki er gerð að skyldu, né nær valdi á hugsjónaafli manna og tilfinningum, né færir mönnum neinn beinan hagnað. Svo mun flestum mönnum fara, sem eru sæmilega fróðir um eitthvað, að þeim er það stöðugt undrunarefni hvað aðrir eru ófróðir um það, sem þeir vita, þrátt fyrir alla skólana og allar bækurnar.

En enginn vafi er á því, að vanþekkingin á Íslandi úti um hinn siðaða heim er nokkuð óvenjulega mikil. Hún er stöðug skapraun íslenzkum ferðamönnum. Um hitt er samt meira vert að sjálfsögðu, að hún er Íslandi stórtjón. Þar sem áhrif Vestur-Íslendinga hafa til náð, hattar fyrir. Alstaðar annarstaðar eru hinar og aðrar kynja-hugmyndir um ættjörðina okkar

að þvælast í hugum manna. Einkum lokleysur um fádæma kulda. Þeim veldur að sjálfsögðu nafnið á landinu.

Á heimleiðinni yfir Atlantshafið sat stúlka, á að gizka hálf-þrítug við hliðina á mér við borðið. Hún var komin, ein síns liðs alla leið frá Honolulu í Sandvíkureyjum, langt vestan úr Kyrrahafi og sunnan úr brunabelti. Hún þótt ist fær í flestan sjó, og eg fann, að hún leit á það eins og að skreppa bæjarleið að fara vestur undir Klettafjöll, eins og eg hafði komist. Hún spurði mig, hvert eg væri að fara. »Til Íslands,« sagði eg. Hún kiptist ofurlítið til í herðunum, eins og næðingsgustur hefði komið á hana. — »Þar er víst kalt,« sagði hún. »Nokkuð,« sagði eg, hélt annars, að nafnið mundi vera einna kaldast parturinn. — Hún hló, og við töluðum dálítið frekar um þennan kulda, sem eg sagði, að ekki ofbyði manni eins og mér, sem hefði verið nokkur ár í Manitoba.

Eg varð þess brátt var, að stúlkan hafði sagt skipverjum frá þessari sam-

ræðu okkar. Eftir þetta hófu allir samtal við mig með þessum formála: »Þér eruð frá Íslandi, og þér segið, að þar sé ekki eins kalt, eins og eg hefi haldið.«

VII.

Eftir rúmra átta sólarhringa ferð lagðist lotnan við merkasta sögustað Canada, kastalann í Quebec. Þar var út kljáð fyrir nálægt hálfri annari öld (13 sept. 1759), hvort Canada skyldi verða enskt land eða franskt, með mannskæðri orustu. Hershöfðingjar beggja þjóðanna féllu, Montcalm og Wolfe, og blettirnir, þar sem þeir týndu lífi, eru merktir með nöfnum þeirra og blasa við mönnum á innsiglingu.

Ólíkari borgir en Quebec og hin nýju höfuðból vestur á sléttunum er ekki auðhlaupið að því að finna. Quebec er reist í snarbröttum brekkum. Strætin eru sum engu breiðari en allramjóstu gatnasmugirnar í Reykjavík og liggja beint upp og ofan brekkurnar. Alt ber vitni um það í Quebec, að þar

séu menn staddir í eldra lagi menn ingarinnar. En yndislega fagurt er um að litast ofan af brekkunum.

Farþegar höfðust við um nóttina á skipinu. En morguninn eftir fór fram skoðun og bókun á innflytjendum. Og um hádegsbilið lögðu margir, sem vestur í landið ætluðu, af stað með járnbrautarlest þar á meðal Íslendingar allir en aðrir héldu áfram með skipinu upp eftir St. Lawrencefljótinu til Montreal.

Landferðin vestur Canada er farþegum á 13. farrymi örðugasti hluti ferðarinnar. Á skipinu hafði verið þrýðisvel með þá farið að öllu leyti, og svo miklu betur hafði farið um þá á Ionian en á 2. farrymi á dönsku skipunum hér við land, að ekki verður saman borið. Hitt er ekki alllítil raun, að húka á trébekkjum 2½ sólarhring, nær því hreyfingarlaus, í illu lofti. Einkum var aumkunarlegt að sjá veika manninn, sem eg hefi áður minst á, eiga við jafn lítil þægindi að búa á svo langri leið.

Þessir vagnar eru ekki notaðir handa öðrum en innflytjendum. Og vitanlega eru þeir hafðir svona þægindasnauðir í því skyni að geta látið ferðina verða innflytjendum sem kostnaðarminsta. Um aðra fer tiltakanlega vel á járnbrautum, bæði í Canada og Bandaríkjunum. Menn sitja á mjúkum fjaðrasætum að deginum Afbragðs-rúm eru á boðstólum á nóttum. Og þrisvar á dag er gerður kostur á að setjast að kræsingum. En öll auka-þægindi eru nokkuð dýr. Naumast verða menn saddir af minni máltíð en dollarsvirði, þó að ekkert óhóf sé í frammi haft.

Á járnbrautarstöðvum koma dagblöð inn í lestina. Og ekki gat það dulist lesanda, að nú var hann staddur í landi, þar sem ýmislegt sögulegt gerist, og ekki er heldur látið liggja í láginni það sem í frásögur er færandi. Vesturheimsblöð eru jafn nafntoguð fyrir fréttamergð og ítarlegar frásagnir. Og í fyrstu getur maður naumast varist þess að láta sér ofbjóða hve mikið er af ljótum verkum og svívirðilegum í ver-

öldinni. Þangað til maður venst við það, og áttar sig á því jafnframt, að það þykir ávalt fréttnæmast og sjálfsagðast frásagnarefni, sem ljótast er.

Fyrsta blaðið, sem eg sá í vagnlestinni, sagði frá dómsurslitum í einu af þeim glæpamálum, sem mestri æsingu hafa valdið í Vesturheimi á síðari árum. Ríkisstjóri í einu af vesturríkjum Bandaríkjanna hafði verið myrtur. Hann hafði verið námamönnum sérstaklega örðugur. Þeim var kent um morðið, og þrír leiðtogar þeirra höfðu verið teknir fastir og sakaðir um að hafa verið valdir að morðinu. Morðinginn sjálfur hafði keypt sér grið með því að bera þessar sakir á þá. Málið varð að stórkostlegri aflraun með auðmönnum og verkamönnum.

Mál þess sakbornings, sem mest þótti um vert og auðveldast var talið að fella, var fyrst tekið fyrir. A ment mun hafa verið búist við því, að hann yrði dæmdur sekur og hengdur. En hann var sýknaður. Og verkamenn töldust þá hafa unnið hinn mesta sigur

Eg kynti mér töluvert þetta mál nokkuru síðar, las allar ræður málfærslumannanna, sem höfðu vitnaleiðsluna alla að undirstöðu. Og eg hefi aldrei lesið neitt ljótara. Morðinginn reyndist hafa svo mikla og svo marga og svo andstyggilega glæpi á samvizkunni, að mann furðaði á, að slík vera skyld vera til í mannsmynd. Auðvitað var spillingin sýnilega mikil hjá námamönnum, enda kennir víst ýmissa grasa í þeim hóp. Samt voru enn afskaplegri sakir bornar á auðmennina, og minsta kosti hinar öflugustu líkur færðar að þeim sakargiftum sumum. Með öðru fleira var það, að þeir hefðu beinlínis lagt í vana sinn manndráp og tundurkúlnasprengingar í því skyni að kenna verkamönnum um. Við eina þá spreng ng höfðu fjórtán menn farist.

Orðalagið í aðalblaði verkamanna þar vestra, Reason, var, um það leyti sem málið var flutt, svæsnara en nokkuð annað, sem eg hefi séð á æfi minni. Meira og minna umbúðalitlum hótun-

um um hermdarverk var látið rigna yfir lesendurna. Ofstopinn alveg gengdarlaus.

Því meira sem eg las af Vesturheims-blöðunum, því betur skildist mér það, hve alarþungt áhyggjuefni ástandið í Bandaríkjunum hlýtur að vera hinum beztu og vitrustu mönnum þar. Vitaskuld verða menn að hafa það hugfast, hve miklu meira ö.lu ljótu og illu er á lofti haldið en hinu, sem fagurt er og gott. Vitaskuld verða menn að hafa það hugfast, hver ógrynni af vitsmunum og menlun og lærdómi og þreki og þolgæði og sjálfsafneitun og kærleika eru að sjálfsögðu saman komin hjá veraldarinnar mestu framfaraþjóð. Þau öflin vona menn í lengstu lög, að fái sveigt hugina inn á brautir friðarins. Samt sem áður dylst vafalaust flestum mönnum, sem um málið hugsa, hvernig ráðið verður fram úr vandamálunum þar vestra annan veg en með einhverri allsherjar sprengingu

Það er auðvitað auðvaldið, sem voðinn stendur af.

Það hefir átt mjög mikinn þátt í að gera Bandaríkin að því, sem þau hafa orðið á svo skömmum tíma. Sjálfsagt eiga þau auðvaldinu meira að þakka tiltölulega en nokkur önnur þjóð. Það hefir, framar öllu öðru tengt saman þetta óhemju-mikla svæði og þessa mörgu tugi miljóna af mönnum. Það hefir lagt járnbrautirnar um heimsálfuna, gert hana byggilega með þeim hætti. Það hefir komið upp iðnaði, sem í ýmsum greinum tekur öllum öðrum iðnaði fram. Það hefir lagt þessar miklu þjóð til peninga. Það hefir komið upp og eflt ýmsar ágætustu mentastofnanir landsins.

En nú er það orðið að heljar-óvætt, sem þjóðin ræður ekkert við, líkt og ormur Þóru borgarhjartar. Hún bar gull undir orminn. Hann óx og gullið líka. Loks lagðist hann utan um skemmuna, svo að saman tók höfuð og sporður, og enginn maður þorði að koma til skemmunnar, nema sá

einn, er færði honum mat. Og heilan uxa þurfti hann í mál. Þjóðfélagið hefir borið gull undir auðvaldið með ymsum hlunnindum og fjárveizlum. Og auðvaldið hefir magnast og gullið vaxið. Og auðvaldið étur meira en heilan uxa í mál. Það étur meira en efni þjóðarinnar. Það étur oft og einatt löghlyðni hennar og drengskap, þar sem það nær til. Það er aðalspillingarafl heimsálfunnar. Og nú stendur á því, að einhver Ragnar Loðbrók vinni óvættina.

Enginn vafi er á því, að Roosevelt forseti hefir hugsað sér að verða sá kappinn. Barátta hans við auðvaldið hefir verið snörp og vaskleg. Vopnabrakið í viðureign hans við kjötsvikarana barst um allan heim. Þá sá auðvaldið hvert var stefnt, og bjóst ósleitilega til varnar. Síðan hefir forsetinn verið því þrándur í götu, hvar sem hann hefir fengið því við komið. Og nú, síðastliðið sumar, lét hann sekta einn auðkyfinginn um 29 miljónir dollara fyrir ólöghlyðni í við-

skiftum, eins og flestum mun minnisstætt.

En auðvaldið hefir ekki heldur horft á með hendur í vösum. Það hefir hvorki gert meira né minna en loka peningalindinni að allmiklu leyti fyrir veröldinni. Í sinni röð er það sjálfsagt hið gífurlegasta örþrifaráð, sem nokkuru sinni hefir verið gripið til á þessari jörð. Vitaskuld hefir ýmislegt við og við verið borið í vænginn. En aðra stundina könnuðust auðkýfingarnir við það nokkurn veginn afdráttarlaust, að þeir ætluðu að sjá, hvorir mættu sín meira, ef í það færi, þeir eða stjórn Bandaríkjanna. Og enginn maður í Vesturheimi virðist í neinum vafa um það, hvernig á peningaeklunni stæði.

Og hver spyr annan: Hefir nokkuru sinni meiri voði komið upp með þjóðunum en sá, að fáeinir óhlutvandir menn, sem ekki vilja hlýðnast landslögum, fái lamað viðskiftalíf veraldarinnar? Er það ekki með öllu óþolandi? Og gefur það ekki öllum sundr-

ungar- og óstjórnaröflum þjóðarinnar þann byr undir báða vængi, að ekki verði viðnám veitt? Höfum við ekki sezt að í húsi, þar sem tundurvél er falin í kjallaranum?

Eg bið lesendur Norðurlands velvirðingar á því, að eg er kominn nokkuð langt út úr vagnlestinni, sem er að flytja mig til Winnipeg.

VIII

Við komum til Winnipeg skömmu eftir náttmál. Þá voru liðnar þrjár vikur síðan eg hafði lagt af stað af Reykjavíkur-höfn

Síðasta daginn spratt sægur af endurminningum frá Winnipeg upp í huga mínum. Sá skógur varð því þéttari, sem nær dró takmarkinu. I Winnipeg hafði eg átt heima rúmlega 9 ½ ár. Eg hafði orðið þar fyrir margvíslegri lífsreynslu, áhyggjum og baráttu og sorg og ljúfum unaði og óþrjótandi drengskap góðra manna. Þar höfðu farið um hug minn efasemdir um alt,

að kalla má, sem eg hafði áður sannfærst um. Þar hafði hugur minn með ýmsum hætti tekið gagngerðum breytingum. Og þar hafði eg orðið var við ný öfl í sál minni.

Meðal annars hafði eg ritað *Vonir* þar. Eg hafði fleygt mér út af einn heitan júnídag eftir miðdegisverð og fest svefninn að eins. Þá dreymdi mig aðalefni sögunnar, en sérstaklega atburðinn í innflytjendahúsinu. Eg hrökk upp friðlaus af löngun eftir að fara að skrifa þetta, og eg byrjaði samdægurs. Eg hafði fleiri störfum að gegna. En eg lauk samt við hana á þriðja degi. Mig furðaði á þessum hraða, einkum vegna þess, að sagan er allsendis ólík öðru, sem eg hafði reynt að skrifa áður, og eg var kominn nálægt þrítugu. Þá hafði eg lítið um sálarfræði lesið, og ekkert, sem grundvallað er á athugunum og rannsóknum sálarfræðinga hinna nýju tíma. Nú veit eg að það sem þessu líkist er skýrt þann veg, að ríkur straumur berist úr undirvitund mannsins, þar

sem langmestir hæfileikar mannanna eru saman komnir, inn í hina almennu vitund. Þá hafði eg enga hugmynd um neinar slíkar skýringar. Eg vissi það eitt eftir þessa þrjá daga, að mér var þess ekki varnað, sem mig hafði oft langað mest til af öllu, en jafnframt efast um að mér væri gefið — að segja sögur. Og eg var glaður eins og barn.

Og nú sat eg þarna við gluggann í vagnlestinni, eins og Ólafur í *Vonum*, og horfði í gaupnir mér. Eg var að hugsa um svo margt og svo margt. Og meðal annars, hverjir vinir mínir mundu verða staddir á járnbrautarstöðinni, þegar mig bæri þangað inn. Eg vissi, að sumir þeirra hugsuðu ekki til mín af alveg sama þeli og áður. Straumar tímans og eðlisfar mannanna, mitt og annara, hafði farið með hugina í ólíkar áttir. Eg vissi að þetta var ekkert annað en eðlilegt, og að enginn hafði með nokkuru móti getað við því gert. Samt varpaði það óróleik inn í aðaltilfinninguna: fögn-

uðinn út af því, að eiga nú að fá að sjá þá, sem eg vissi, að einlæglega langaði til þess að hitta mig.

Ekki leyndi það sér, þegar lestin rann inn í rafljósaljómann á járnbrautarstöð Kyrrahafsbrautarfélagsins canadiska, að mikil hafði breytingin orðið þar á þeim 12 árum, sem liðin voru, síðan er eg fór þaðan Þá hafði afgreiðsla félagsins og biðstofur verið í nokkuð stóru, en allsendis óveglegu, timburhúsi. Og lestirnar höfðu staðnæmst á strætinu þar fyrir framan. Nú staðnæmdist lestin með okkur í afar mikilli hvelfingu, eins og í stórborgum veraldarinnar, Og í stað timburskálans voru komin afarmikil stórhýsi úr tigulsteini. Þar eru skrifstofur og afgreiðsla félagsins, skrautlegir biðsalir handa almenningi. Og þar á félagið jafnframt veglegustu gistihöll Canada, eina af hinum veglegustu, sem til eru í heimi Hún heitir *Alexandra*, í höfuðið á drotningu brezka ríkisins.

Marga Íslendinga sá eg inni í biðsalnum, þegar eg kom þangað inn.

Þeir flyktust utan um mig og heilsuðu mér af svo mikilli ástúð, að mér gekst hugur við. Þeir spurðu mig, hvort eg myndi eftir sér, og hvort eg þekti sig. Og eg varð að gjalti. Þeir voru svo margir. Og alt var með svo fljótri svipan. Hugurinn hafði ekki við. Eg þekti andlitin. En eg kom ekki fyrir mig nöfnunum. Og eg skammaðist mín fyrir það. Og eg skammaðist mín fyrir að segja einhverja vitleysu. Og eg fann, að eg var að verða heimskastur maður í þeim mannfjölda.

Einna fyrst af gömlum vinum mínum heilsaði mér frú Nanna Arngrímsdóttir Gíslasonar málara, kona Benedikts Jónssonar frá Stóruvöllum. Þau hjón nefna sig Benson að ættarnafni. Eg hafði þekt hana nær því öll árin, sem eg var í Winnipeg. Hún hafði verið næsti nágranni okkar hjóna um eitt skeið, og ávalt reynst okkur drengur hinn bezti. Hún spurði mig, hvort eg þekti sig. Mér flaug nafnið í hug. En eg þorði ekki að segja það. Eg átti von á, að hún hefði elst um 12 ár

En hún hafði yngst sem því svaraði í mínum augum. Hún hafði verið grönn og skarpholda þegar eg kvaddi hana. Nú var hún orðin mátulega feit og sælleg Svona getur ýmislegt verið að varast eftir 12 ár!

Því miður var ekki sami agnúinn á um þann vin minn, sem eg hlakkaði mest til að sjá, þann manninn, sem eg átt það mest að þakka, ekki að eins hve ferðin varð ánægjuleg þar vestra heldur og það, að eg gat farið hana — síra Friðrik J Bergmann. Hann hafði fengið lausn frá söfnuði sínum nokkurar vikur og var kominn norður að Gimli með fjölskyldu sína til hvíldar Eg hafði sent honum hraðskeyti frá Quebec um það, að eg væri á ferðinni og hvenær eg væri væntanlegur, og hann hafði gert sér ferð til Winnipeg til þess eins að taka á móti mér Og eg hitti hann þarna í mannþrönginni magran og fram úr lagi þreytulegan. Og þegar eg kyntist betur, furðaði eg mig ekki á því. Heilsa hans er á svo völtum fæti, að hann

má engan dag neyta matar líkt því, sem aðrir menn gera. Og jafnframt sýnist starfið vera honum ástríða. Þekkingarþorstinn og framkvæmdarfýstin virðast orðin ofviða veikum líkamanum.

Hann fór með mig inn í Alexöndruhótelið til kveldverðar. Þaðan héldum við í rafmagnsvagni heim til hans. Jafn-glæsilegt íslenzkt heimili hafði eg aldrei fyr séð í Vesturheimi. En glæsilegastir og yndislegastir voru bókaveggirnir samt í skrifstofunni. Enda er þar komið í mikið fé.

Nokkurir gamlir alúðarvinir mínir biðu mín heima hjá síra Friðrik. Eg gleymdi ferðaþreytunni. Kvöldið leið og miðnætti leið. Og ekki var annars kostur en fara að hátta.

## IX

Eg vaknaði snemma fyrsta morguninn í Winnipeg, á undan öðrum í húsinu. Og eg hafði ekki þreyju á að liggja vakandi í rúminu. Löngunin til

þess að sjá fornar stöðvar var of mögnuð til þess. Svo að eg klæddi mig og fór að ganga um bæinn.

Eg þekti ekki nema fá strætin. Sumstaðar voru komin marglyft stórhýsi, þar sem áður höfðu verið auvirðilegir kofar. Langar, langar leiðir voru komin vegleg stræti, þar sem ekki hafði verið annað en ósnortnar grundir fyrir 12 árum. Þar brunuðu nú rafmagnsvagnar fram og aftur, sem kúm hafði verið haldið á beit sumurin, sem eg átti heima í Winnipeg. Meginhluti strætanna var nú lagður asfaltsteypu, bæði gangstéttir og akbrautir. Hana hafði eg varla séð í Winnipeg áður. Bærinn hafði vaxið þessi árin um nærfelt tvo þriðjunga mannfjöldi talinn um 40 þús., þegar eg fór þaðan, en 110—120 þús., þegar eg kom aftur.

Ekki hefir samt Íslendingum fjölgað þar í borginni þessi ár. Þeim virðist hafa fækkað til muna. Þegar eg fór þaðan, 1895, var gizkað á, að Winnipeg-Íslendingar mundu vera nálægt 5 þúsundum. Vel getur verið, að sú á-

gizkun hafi verið of há. Nú eru þeir taldir innan við 3000, eftir því sem Tómas Jónsson, málfærslumaður, sem nýlega hefir staðið fyrir manntali í borginni, sagði mér. Innflutningar frá Ísland hafa verið litlir síðustu árin. En útstreymi Íslendinga úr borginni hefir verið töluvert. Eignir hafa hækkað í verði að stórum mun og menn hafa haft mikla peninga með höndum. Fyrir því hefir verið auðvelt að selja. Margir hafa sætt því færi, og flutt sig burt, þegar um hægðist, sumir vestur að Kyrrahafi, til þess að komast í mildara loftslag, aðrir hafa numið land og farið að búa.

Íslendingar eru í miklum metum í Winnipeg eins og hvarvetna í Vesturheimi, þar sem menn hafa kynni af þeim. Á hinum fyrri landnámsárum þeirra vestra mun það ekki hafa verið með öllu ótítt, að þeir skirðust við, sumir, að áta þjóðernis síns getið að nauðsynjalausu. Það var með öllu eðlilegt. Allur þorri manna hélt, að Íslendingar væru einhverir fáránlegir skræl-

ingjar eins og konan frá Hamilton hélt, sú er eg hef áður minst á. En nú bar öllum saman um það, jafnt í Winnipeg og úti í nýlendunum, að betri þjóðernis-meðmæli gæti enginn maður komið með en þau, að hann væri Íslendingur. Þá er, að öllu óreyndu, gengið að því vísu, að hann sé gáfaður maður og vandaður maður.

Ekki duldist það mér, þegar eg fór dálítið að kynnast í borginni, að Íslendingar hafa þokast þar allmikið upp eftir þjóðfélagsstiganum síðustu árin. Meðal annars eru nú nokkurir Íslendingar þar, sem hafa stórfé með höndum að mesta kosti eftir mælikvarða okkar, sem Ísland byggjum. Eftir því sem mér skildist, hafa 7 Íslendingar þar einna mest fé með höndum einn Múlasýslumaður, *Jón J Vopni*, tveir Eyfirðingar, *Loftur Jörundsson* úr Hrísey og *Albert Jónsson* af Akureyri, og fjórir Þingeyingar, *Gísli Ólafsson, Þorsteinn Oddsson, Arinbjörn Bardal* og *Tómas Jónsson*. Vel má vera, að mér hafi sést yfir einhverja, sem hafi eins

mikið fé með höndum eins og þessir menn. Eg fullyrði ekkert um það. Íslendingar búa svo margir þar við mikil efni. Og að sjálfsögðu fullyrði eg ekkert heldur um verulegan auð þeirra manna. Eg hefi ekki séð jafnaðarreikninga þeirra. En hitt er víst, að þessir menn hafa með mikilli elju og framtakssemi komist hátt upp í hlíðar viðskifta lífsins þar. Og jafn áreiðanlegt er hitt, að þeir hafa allir byrjað efnalausir, og sumir í örbirgð.

Híbýlaprýði er stórmikil með Winnipeg-Íslendingum. Eg kom inn í hús fjögurra þeirra, sem eg hefi nú nefnt: Lofts Jörundssonar, Þorsteins Oddssonar, Jóns Vopna og Gísla Ólafssonar. Og mér er óhætt að fullyrða, að öll mundu þau heimili þykja samboðin stórmennum, hvar sem væri. L. J. hefir reist hús sitt í rómverskum stíl frá 16. öld. Hin eru með nýtízkusniði Vesturheimsmanna. Eins og nærri má geta, eru ekki heimili allra jafn-glæsileg. En því fer fjarri, að það séu hinir helztu efnamenn einir, sem eiga þau fögur

Allur þorri Íslendinga í Winnipeg hefir prúðmannleg híbýli. Og það leynir sér yfirleitt ekki með Vestur-Íslendingum, að þegar um fer að hægjast, er tilhneigingin til þess að láta fara vel um sig miklu ríkari en tilhneigingin til hins, að safna fé. Þess þarf naumast að geta, að í húsunum eru öll helztu heimilisþægindi nútíðarmanna: raflýsing, gas til eldamensku, miðstöðvarhitun, vatn og baðkiefi.

Þegar eg fór frá Winnipeg 1895, var mikill fjöldi Íslendinga þar óbreyttir verkamenn, og leituðu sér einkum atvinnu á sumrum við strætisvinnu, lokræsagröft o. s. frv. Nú var mér sagt, að mjög lítið væri orðið af þeim mönnum í borginni. Aðrar þjóðir eru teknar við af þeim, einkum Galizíumenn. Nokkurir Íslendingar hafa trygð við það starf frá fornum tímum, en gera sjálfir samninga um það, og eru orðnir yfirmenn annara. Annars eru Winnipeg-Íslendingar iðnaðarmenn og verzlunarmenn alls konar. Fáeinir eru embættismenn í skrifstofum stjórnarinnar. Tveir

að minsta kosti eru málfærslumenn — geta verið fleiri, þó að eg viti það ekki. Annar þeirra er *Tómas Jónsson*, sem eg hefi þegar nefnt, Björnssonar frá Héðinshöfða, náfrændi Kristjáns amtmanns Kristjánssonar og þeirra bræðra. Hann er einn meðal þeirra málærslumanna borgarinnar, sem mest starf hafa með höndum. Álit það og traust, er menn hafa á honum, má nokkuð marka af því, að honum var ætlað það ráðherraembætti fylkisins, sem næst er stjórnarformenskunni, ef stjórnarandstæðingar hefðu unnið sigur við síðustu kosningar, eftir því sem fullyrt var í mín eyru af kunnugum mönnum. Þrír eru læknar: *Ólafur Stephensen* frá Vatnsfirði, *Ólafur Björnsson*, Péturssonar og *Brandur Brandsson*, sonarsonur Guðbrands heitins í Hítardal. Tveir Winnipeg Íslendingar eiga sæti á Manitobaþinginu *Sigtr Jónasson* og *Tómas Jónsson*. Einn er í bæjarstjórn Winnipegborgar *Árni Eggertsson*, Borgfirðingur, systursonur

Jónasar bónda í Sólheimatungu, að mig minnir.

Íslendingar í Winnipeg, eins og annarstaðar í Vesturheimi, þar sem þeir eru, standa yfirleitt hinum beztu sambýlingum sínum fyllilega jafnfætis, og í sumum greinum framar. Til dæmis má benda á það, að íslenzk ungmenni fá miklu meira af verðlaunum í skólunum en að réttri tiltölu við fjölda þeirra. Þetta er viðurkent af öllum mönnum, sem til þekkja.

Vegur Íslendinga í Vesturheimi er ekki að eins mikil gleði vinum þeirra og sæmd þjóð vorri. Hann er jafnframt ein af mörgum bendingum um það, hvað úr þessari þjóð *getur* orðið og *á* að verða.

X.

Síra Friðrík Bergmann bauð mér að fara norður að Gimli og dveljast þar hjá sér í sumarleyfi hans. Eg þá það boð með þökkum. Tíminn var óhentugur til þess að halda samkomur, enda

hafði eg ekki komið því við að búa mig undir þær. En tvo daga staldraði eg við í Winnipeg, til þess að geta verið þar Íslendingadaginn, hlustað á mál manna og heilsað gömlum vinum.

Íslendingadagssamkoman var haldin í lystigarði utan við bæinn. Þar var saman kominn múgur og margmenni. Ekki leyndi það sér, þegar þangað kom, að forstöðunefndin hafði tekið eftir því og tekið það til greina, sem mönnum hafði orðið tíðræddast um hér heima í öndverðu síðasta sumri. Eg á auðvitað við sjálfstæðismálið. Dagskráin var skreytt mynd af bláa fánanum. Sömuleiðis einkennisborðar, sem samkomugestirnir báru á brjóstinu. Og blái fáninn blakti yfir ræðupallinum. Eins og menn geta nærri, hýrnaði yfir mér við þá sjón. Og þá ekki síður við það að hlusta á Íslandsræðu *Vilhelms Pálssonar*, fulla af skilningi á frelsiskröfum þjóðarinnar og samhug með þeim. Þeir bræður, hann og *Magnús Pálsson*, fyrv. ritstjóri Lögbergs, eru

menn afbragðs-vel máli farnir. Og þessi ræða var fyrirtaks snjöll.

Eg skal taka það fram um leið, að hins sama anda kendi hvarvetna og undantekningarlaust, þar sem eg kom til Vestur-Íslendinga og varð var við. Allir virtust vera eindregnir með sjálfstæðiskröfum þjóðarinnar. Það mun sannast, að eitthvað illa verður á haldið, ef sjálfstæðisbaráttu vorri verður ekki lið að þeim hug Vestur-Íslendinga, svo framarlega sem vér þurfum á liðsinni þaðan að halda.

Margar ræður voru haldnar á þessari samkomu. Tvær þeirra héldu menn, sem hafa fengið alla sína mentun vestra: dr. Br. Brandsson og Tómas Jónsson. Ræður þeirra voru á alveg eins góðri íslenzku eins og við tölum. Og ekki varð eg þess var, að ræðurnar, sem haldnar voru þennan dag, væru á neitt lakari íslenzku yfirleitt en þær ræður, sem fluttar eru hér í Reykjavík á þjóðminningardögunum. En nokkura menn, sem mjög vænt þykir um íslenzkuna, heyrði eg kvarta undan því,

að æskulýðurinn fengist ekki til þess að tala annað en ensku sín á milli auðvitað af því, að hún er tamari. Allir töluðu íslenzku við mig, þeir er eg átti orðastað við, frá því er eg kom til Vesturheims og þar til er eg fór þaðan, karlar og konur, ungir og gamlir. Eg varð ekki var neinna örðugleika á því. Og sannleikurinn er sá, þótt kynlegt megi virðast, að íslenzkan í Vesturheimi hefir orðið fyrir miklu meiri spillingaráhrifum frá dönskunni en enskunni. Það getur hver maður séð, sem athugar ritmálið vestra. Með öðrum orðum: spillingin er að langmestu leyti komin héðan að heiman, hún á ekki nema að litlu leyti upptök sín í Vesturheimi.

Mér þótti vænt um, þegar ræðum var lokið. Ekki fyrir þá sök, að mér væri ekki ánægja að því að hlusta á ræðumenn, heldur vegna hins, að mér lá við að skjálfa af kulda. Eg hafði farið létt búinn á þessa samkomu, hafði minst þess um morguninn, að mikill hiti hafði verið alla Íslendinga

daga, sem eg hafði í Winnipeg verið, og alls ekki tekið það til greina, að þetta var langkaldasta sumarið, sem komið hefir þar vestra um mörg, mörg ár. Einn góður maður lánaði mér yfirfrakka, þegar hrollur tók að færast um mig. En mér hitnaði samt ekki að fullu. Sennilega hefir sú kulvísi stafað af óhraustleik, sem eg kendi fyrst á leiðinni vestur um haf og losnaði ekki við fyr en á leiðinni austur um hafið aftur. Hann olli miklum ánægjuspilli í dvöl minni og ferðalögum vestra, hann gerði fyrir það, að eg gæti komið jafn-mikið til gamalla og góðra vina minna eins og mig langaði til. Og hann olli stundum töluverðum þrautum og að jafnaði mikilli þreytu á ferðalögum.

Eg fór að rangla um garðinn mér til hita, að ræðunum loknum, rabba við menn og rifja upp fornar endurminningar. Það var yndislegt, eins og menn geta nærri, að sjá og finna gamlan hýleik í augum og orðum. En minnisstæðastur verður mér dagurinn

fyrir það, að eg tel mig hafa eignast þá tvo góða vini.

Annar þeirra er Þorsteinn Oddsson, sá er eg hefi áður minst á. Eg hafði varla séð hann áður En hann er mikill vinur og ágætur stuðningsmaður síra Friðriks Bergmanns, maður fullur ástúðar og góðgirni, og honum átti eg það að þakka manna mest, næst síra Friðrik, að nokkuð gat orðið úr þessari ferð Við töluðum saman góða stund um daginn Og síðar kom eg nokkurum sinnum í hið fagra og glæsilega heimili hans.

Hinn maðurinn er *Friðrik Sveinsson*, forseti Únítarasafnaðarins íslenzka í Winnipeg, bróðir síra Jóns Sveinssonar í Ordrup Honum hafði eg ofurlítið kynst, meðan eg átti heima vestra, en ekki nema lítið Hann er málari, býr einkum til auglýsingaspjöld, og hann er manna listfengastur á alt, sem hann tekur á. Eg var eitt sinn, sem oftar, riðinn við sjónleika í Winnipeg. Þá bjó hann til handa okkur mjög falleg leiktjöld og málaði á okkur

andlitin. En kunnleikar höfðu litlir orðið með okkur. Nú náði hann í mig, og við vorum lengi að ganga saman um garðinn. Hann talaði ekki um annað en andleg mál. Og hann talaði um þau af þeirri þekkingu, þeim skilningi og því frjálslyndi, að mér var mikil unun að.

Morguninn eftir fór eg með honum spölkorn út úr borginni, til þess að heimsækja fóstra hans, *Ólaf* gamla *Ólafsson* frá Espihóli, sem öllum Eyfirðingum er kunnur, og sjálfsagt mörgum öðrum. Hann hefir verið í Vesturheimi nokkuð meira en heilan mannsaldur, og farið víða. Hann var annar þeirra manna, sem til Alaska fóru með Jóni Ólafssyni. Hann hefir átt heima langt suður í Bandaríkjum, norður í Nýja Íslandi og vestur undir Klettafjöllum, er nú seztur að í Winnipeg fyrir nokkurum árum, og vildi víst helzt eiga það eftir að koma heim til ættjarðarinnar að fullu og öllu. *Fátækur* hefir hann ávalt verið að jarðneskum efnum, en auðugur að hugsunum og mannviti.

Snemma var hann því gersamlega fráhverfur að taka hugsanir annarra manna gildar, ef þær samþyddust ekki viti og samvizku sjálfs hans. Nú er honum farið að förlast heyrn og heilsan er á völtum fæti. En hann les frá morgni til kvölds af hinum mesta áhuga. Hann er vafalaust einn af hinum mestu fróðleiksmönnum íslenzkrar þjóðar, austan hafs og vestan. Alt virtist hann hafa lesið, sem prentað hefir verið hér á landi á síðari tímum og lesandi er. Og hann talaði af miklum fögnuði um þær frelsishreyfingar í andlegum efnum, sem bólað hefir á hér á landi hin síðari ár. Jafnframt talaði hann af allmiklum þunga um þær tilhneigingar til andlegs ófrelsis, sem óneitanlega hafa töluvert gert vart við sig vestra. Honum fundust Vestur-Íslendingar vera að dragast sárgrætilega aftur úr lest menningarinnar í andlegum efnum. Og hann leit svo á, sem sú uppbótin væri mjög léleg, að lífið yrði eitthvað dálítið glæsilegra, ef skiln

ingurinn á frelsis- og framfara-hugsjónir manna færi jafnframt þverrandi.

## XI

Eg geri ráð fyrir því, að allmargir menn vestan hafs, og ef til vill einhverir hér heima líka, búist við því, að eg kunni að minnast fáeinum orðum á andlegar horfur með löndum okkar vestra, eftir því sem mér hafi litist þær. Eg get ekki heldur stilt mig um það, af því að þar eru svo merkilegir tímar einmitt nú í þeim efnum. En jafnframt ætla eg við það að kannast, að eg geri það hálfnauðugur. Mér var tekið af svo mikilli góðvild af öllum flokkum landa minna vestra. Og mig tæki það sárt, ef þeir þættust fá frá mér kveðju aftur, sem þeim fyndust ósanngjarnlegar eða óvingjarnlegar, en að hinu leytinu þykist eg sjá þá annmarka á andlegu lífi þeirra, sem ekki verði þagað um, ef eg á að vera hreinskilinn. Bótin ætti að verða sú, að eg finn ekki hvöt hjá mér til

þess að segja neitt verulegt annað en það, sem mönnum er kunnugt um vestra, að sé sannfæring mín, né heldur annað en það, sem eg hefi að einhverju leyti minst á áður.

Með Vestur-Íslendingum bera kirkju og trúarmál svo mjög ægishjálm yfir öllum öðrum andlegum málum, að eðlilegt er, að mönnum hér heima veiti örðugt að átta sig á því. Hér á landi vekur það litla eftirtekt, sem sagt er á því sviði. Bergmálið er álíka mikið eins og þegar kallað er ofan í ullarbyng. En með Vestur-Íslendingum er alt það, sem sagt er og eitthvað áhrærir kirkjuna og kenningar hennar, rætt af mjög mörgum og rifið sundur af einhverjum, hvort sem það er með henni eða móti. Hér á landi verður naumast sagt með réttu að skoðanir á kirkju- og trúarmálum valdi flokkaskifting í nokkurum skilningi. Með Vestur-Íslendingum valda þær þeirri flokkaskifting, sem langmest kveður að og gerð er af langmestri einlægni.

Að yzta áliti er flokkaskiftingin þre-föld vestra Lúterskirkjumenn, Unitarar og kirkjuleysingjar Unitarar eru fámennastir Í þeim hópi hafa verið og eru meðal annarra nokkurir gáfu-menn. Og ýmislegt hafa þeir sagt ó-mótmælanlega satt og rétt í ádeilum sínum En þeim mönnum, sem borið hafa fram merki þeirra, hefir ekki tek-ist að safna mönnum undir merkið. Og áhrif þeirra virtust mér ekki mikil. Kirkjuleysingjar eru flestir En þeir hafa ekki fylkt liði sínu Þeir eiga ekk-ert málgagn. Og í þeim flokki er eng-inn afburðamaður að andlegri atgerfi, annar en *Stephán G Stephánsson*. En hann er einrænn andi, sem fer sinna ferða. Lúterskirkjumenn hafa ákveðna stefnuskrá, hafa barist í þéttskipaðri fylkingu, hafa lagt stórfé fram til stuðn-ings sínum málstað og eiga mikilhæfa foringja.

En þegar nokkuð er að gætt, sjá menn, að skifting innan Lúterskirkj-unnar sjálfrar er að verða all-ákveðin, þó að fult skipulag sé alls ekki á þá

skifting komið, og komi ef til vill ekki. Barátta um andlegar stefnur er að verða all-skörp þar. Og verður þó sennilega snarpari með tímanum. Aðal-foringjarnir eru þeir síra *Jón Bjarnason* og síra *Friðrik J. Bergmann*.

Síra J. B. hefir unnið mikið og þarft verk með Vestur-Íslendingum. Við það kannast allir sanngjarnir menn og vilja láta hann njóta þess. En þroski hans hefir farið í öfuga átt við þekking og hugsun nútíðarinnar. Það er hans mikla mein.

Hann fór til Vesturheims skömmu eftir 1870 fullur af frjálslyndi. Hann ætlaði að verða prestur í norsku synódunni. En foringjarnir þar gátu ekki notað hann, af því að hann var miklu frjálsari í anda en svo, að hann ætti þar heima. Hér í Reykjavík eru til bréf frá honum frá þeim tíma, og þau bera þess órækt vitni, hve hug hans hefir þá verið alt annan veg farið en nú. Fyrst þegar hann tók til starfa með Vestur-Íslendingum hélt hann hátt upp merki frjálslyndisins

gegn síra Páli Þorlákssyni, sem hafði fengið á sig andlegt mót norsku sýnódunnar Í þeirri viðureign náði hann því haldi á hugum margra manna, sem hann hefir aldrei mist, þó að handtökin séu nú orðin nokkuð önnur

Eg minnist einnar sögu, sem sögð var af umræðufundi í Nyja Íslandi, er þeir prestarnir héldu, meðan á þeim deilum stóð Það var nokkurum árum áður en eg kom til Vesturheims. Og eg get ekkert fullyrt um það, hve nákvæmlega rétt sagan hefir verið sögð En hún sýnir að minsta kosti, hvernig menn skildu síra J. B. Eftir eina ræðu hans hafði síra Páll haft orð á því, að *sér* þætti hann nokkuð »breiður« í skoðunum Síra J B. stóð þá upp, breiddi út faðminn og mælti »Já, eg er »breiður« Eg er *svona* »breiður« Og eg vil vera svo »breiður«, að eg geti faðmað alla menn« Það þótti fagurlega mælt, eins og það líka var Og það var að minnum haft, hve vel honum hafði farist þetta.

Síra J. B. hefir átt manna mestan þátt í að stofna kirkjufélagsskap Vestur-Íslendinga og halda honum við. Hvað sem um þá starfsemi kann að verða dæmt, þegar menn hafa með höndum skilyrði þess að meta hana að fullu, þá ætti engum vitrum og sanngjörnum manni að dyljast það, hve mikils er um það tvent vert *að* koma á sambandi með Íslendingum í dreifingunni vestra, og *að* halda þar upp ljósi andans í öllum frumbýlingsskapnum og stritinu og líkamsáhyggjunum og gróðahugsununum annars vegar og andleysis-gjálífinu hins vegar. Kirkju-félagsskap Vestur-Íslendinga er það vafalaust að þakka, fremur flestu öðru, hve haldgott íslenzkt þjóðerni reynist vestra, þrátt fyrir alt og alt. Og honum er það líka sjálfsagt að þakka, hve óvenju-mikið Vestur-Íslendingar hugsa um andleg málefni, þó að þeir hugsi um þau ýmsir á annan veg en kirkjufélagið ætlast helzt til.

Að þessum félagsskap hefir síra J. B. unnið með óþreytandi elju, stakri

ástúð við vini sína, takmarkalausri ó- eigingirni og oft með glæsilegri orð- gnóttarsniði. Vestur Íslendingar hafa fundið til þess, að þeim hefir verið sæmdarauki að gáfum hans og manna kostum. Það vilja þeir muna honum. Og það eiga þeir að muna honum.

Nokkuð stór hópur manna í Winni- peg hefir skapað sér utan um síra J. B. af mikilli ákefð. En áfnframt er ekki því að leyna, að mjög margir kirkjufélagsmenn finna til þess sárt, að hann er að miklu leyti orðinn fulltrúi gamalla, úreltra hugsana, og að hann flytur ekki mál sitt af því umburðar lyndi og þeim skilningi á málstað annarra manna, sem æskilegt væri. Þeir vita það, að ýmsar kenningar, sem hann heldur dauðahaldi í, ná engri átt, að margsannað er um þær, að þær heyra til allt öðru þekkingar- og menningarstigi en því, sem ver- öldin er nú á. Og þeim virðist, sem hann hafi, með harðyrðum sínum, gefið hinu mikla þjóðlífsmeini Vestur-

Íslendinga, ribbaldahættinum í ritmáli, nokkurn byr undir vængina.

Það er vandráðin gáta, hvernig það hefir atvikast, að þroski síra J. B. hefir orðið þann veg, sem raun hefir á orðið. Þegar hann kom út í lífið, virtist hann svo líklegur til skilnings á frjálslyndis-hugsjónir þenna tíma. Og ekki hefir hann skort hugprýð né drengskap til þess að standa við sérhvað það, er hann hyggur rétt vera. Hann hefir ávalt verið manna ólíklegastur til þess að meta sannleikann eftir þeim áhrifum, sem hann kynni að hafa á tímanlega hagsmuni sjálfs hans. Mér liggur við að gera mér þá aðalgrein fyrir hinni taumlausu fhaldsemi síra J. B., að hún stafi af afareinhæfum lestri. Eg er hræddur um, að lundin hafi verið ríkari en svo, að hann hafi haft þolinmæði til þess að kynna sér samvizkusamlega þær skoðanir sem honum veitti eitthvað örðugt að aðhyllast. Og að hugurinn hafi tekið með meiri og meiri fögnuði þeirri sálarfæðunni, sem hleypti

hleypidómum sjálfs hans í spik. En hvernig sem það hefir atvikast, þá leynir það sér ekki, að síra J. B. hefir tekist að verjast miklu af því ljósi, sem þekking og vitsmunir þessara tíma hafa varpað yfir vafamál mannsandans. Og það hefir ávalt miklar og illar afleiðingar þegar andans menn taka að verjast sannleikanum.

Síra Friðrik Bergmann er aðalleiðtogi þeirra manna sem ekki geta til þess hugsað, að sá íhaldsandi verði alvaldur í kirkjufélaginu, sem þar hefir svo mjög ráðið lögum og lofum að undanförnu. Þroskabraut hans hefir farið í gagnstæða átt við andlegan feril síra J. B. Hann kom út í lífið sem íhaldsmaður, svo að mörgum stóð stuggur af, þegar þeir fóru að sjá, hve mikill maður var í honum. En þekkingarþorstinn var frá upphafi ósiökkvandi. Hann hefir komið sér upp einhverju því bezta bókasafni, sem nokkur Íslendingur á. Og hann hefir verið sílesandi, þegar hann hefir haft nokkurt tóm til þess. Hann hefir ávalt

haldið hug sínum í því ástandi, að hann hefir verið fær um að veita nýjum hugsunum viðtöku. Og nú er hann einn af allra-helztu merkisberum andlegs frelsis með íslenzkri þjóð, vestan hafs og austan.

Um guðfræðiskoðanir hans get eg lítið sagt. Hann hefir ekki talað mikið um þær á prenti, síðan er frjálslyndu hugsjónirnar tóku að ná valdi á hug hans. Sennilega eru þær að myndast, eins og ávalt gengast er um þá menn, sem eru að vaxa andlega. Hann hefir tekið í strenginn með vísindalegri rannsókn ritningarinnar, og þeim aðal-ályktunum, sem sú rannsókn hefir valdið. Í því efni hefir hann ekki farið lengra en guðfræðingar við alla mótmælenda-háskóla Norðurálfunnar. Jafnframt er honum að verða það æ ljósara og ljósara, að eigi trúarbrögðin að halda gildi sínu í veröldinni, verði þau að hafa miklu meiri áhrif á fyrirkomulag þjóðfélaganna en þau hafa nú, þannig að olnbogabörnin verði engin með þjóðunum, eins og þau

eru engin á góðum heimilum Kenni trúarbrögðin ekki mönnunum þá list að breyta heiminum, sem er, í heim eins og hann ætti að vera, eru þau að litlu eða engu gagni, segir hann í síðustu Breiðablikum, sem hingað hafa komið. Og loks leggur hann hina ríkustu áherzlu á umburðarlyndið. Játningar mannanna liggja honum sýnilega í litlu rúmi. Eru þeir kærleiksríkir og elska þeir sannleikann og réttlætið af einlægni? Það er honum aðalatriðið. Þeir menn eiga, eftir hans skoðun, að geta tekið höndum saman og staðið í bræðrafylking. Þeir menn, sem spilla fyrir þeirri samvinnu með hörðum dómum um trúarskoðanir annarra manna, þeir eru að spilla fyrir guðs ríki, eftir því sem hann lítur á, hvað gott sem þeim kann að ganga til.

Vitanlegt er það, að séu þessar skoðanir hugsaðar út í æsar, þá verða þær mjög ólíkar því, sem fyrir síra J. B. vakir. Eins og nærri má geta, botna sumir ekkert í því, sem er að gerast, vita ekkert, hvað menn eru að tala um.

í sumu er það látið, að síra F. B. sé genginn af trúnni. Og þeir æpa í hug anum, ef þeir gera það ekki annan veg. Aðrir æpa út af því, að síra J. B. sé óþolandi ófrelsisseggur án þess að þeir hafi hugmynd um nokkurt frelsi. En jafnfram eru þeir áreiðanlega margir, sem sjá það og skilja, að hér eru gamlar hugsjónir og nýjar að heyja baráttu. og að breytingin, sem um er deilt, er mjög mikilsverð og afar-víðtæk. Sumir hugsa til þeirrar breytingar með fögnuði. Aðrir fælast hana.

Svo megn er andróðurinn gegn síra F. B., að það kom til orða á síðasta kirkjuþingi, eftir því sem fullyrt var vestra, þótt ekki væri það á þingfundi, að svifta hann kennarastöðu sinni við Wesleyskólann, vegna þeirra skoðana, sem hann hafði látið uppi, en að setja í þá stöðu mann, er ekki er kunnur að öðru en illa rituðum ofsagreinum í vestur-íslenzku blöðunum. Mér væri það mikil gleði, ef þetta hefir ekki verið annað en flugufregn. Eg get

hennar hér í því skyni sérstaklega, að menn fái tilefni til þess að mótmæla henni, ef hún hefir verið ósönn.

Víst er um það, að sagan barst út um bygðir Vestur Íslendinga. Og hún vakti óhug. Menn spurðu sjálfa sig og hver annan: Er kirkjufélaginu trúandi fyrir dyrum skólastofnunar, sem eg mun minnast fám orðum á síðar — ef þessi kennarastaða er í hættu við að verða leiksoppur í höndum ofsafenginna manna?

Vitanlega er eg ekki í neinum vafa um það, hvernig þessari baráttu, sem nú er byrjað að heyja með Vestur-Íslendingum, muni lykta. Mér kemur ekki til hugar, að unt verði að halda þeim, né neinum öðrum mönnum, við kenningar 17. aldarinnar um allar aldir. Annað mál er það, hve miklum kröftum sú barátta kann að eyða, hve langvinn hún kann að verða, og hve mikilli sundrung hún kann að valda. Sjálfsagt tefur það fyrir, að svo margir af prestum Vestur Íslendinga hafa fengið mentun sína í lúterskum prestaskólum

í Vesturheimi, sem hvarvetna eru orðlagðir fyrir íhald og þröngsýni. Sumir halda, að baráttan hrjóti að kljúfa kirkjufélagið. Eg vildi óska, að svo færi ekki. Ekki verður annað séð, að svo stöddu, en að það mundi verða Vestur Íslendingum mikill hnekkir.

Ekki hygg eg, að neitt verði sagt um það að svo stöddu, hvorumegin fylgið sé almennara. Fráleitt hafa allir áttað sig enn. Þess er engin von. Trúarhug manna þar hefir lengstum verið haldið í svo föstum skorðum, að það væri ekkert undarlegt að einhver ræki upp stór augu, þegar hann fyndi, að nú ætti að fara að losa um böndin. Og mönnum er ekki og getur naumast verið að fullu ljóst, hvert síra F. B. vill halda. Hann hefir fremur lokið upp útsýni en ákveðið stefnu. Og mörgum er svo farið, að þeir eru ekki ánægðir né öruggir, fyr en þeim hefir verið sagt vandlega til vegar. En þar sem eg kom, virtist mér þetta tvent langvíðast efst á baugi. Annars vegar löngun til þess að láta síra J.

B. njóta allrar þeirrar virðingar og viðurkenningar, sem hann á skilið og til þess að varast að særa tilfinningar hans — en hins vegar samúð með síra F. B. og þeim hugsjónum, sem hann heldur fram.

Eftir er að vita, hve fimleikurinn verður mikill, þegar á að fara að flétta þetta saman í framkvæmdinni. Eg þarf naumast að taka það fram, að eg óska að það takist sem bezt.

XII.

Einna áþreifanlegust bending um það, hve kirkjufélagsskapur Vestur-Íslendinga er mikilsverður íslenzku þjóðerni þar vestra, er það, að kirkjufélagið kostar tvo kennara við latínuskóla, annan í Winnipeg, en hinn í St. Peters í Minnesota. Í Manitoba hafa Íslendingar fengið því til vegar komið, að íslenzka jafngildir einhverju öðru nútíðarmáli við stúdentspróf. Með þeim hætti hefir fengist sérstök hvöt til þess að sinna íslenzku-námi. Það mun vera meistari Eiríkur Magnússon,

sem fyrstur lagði það til, að fram á þetta yrði farið. Og hann á miklar þakkir skilið fyrir þá tillögu.

Þessi íslenzku kensla átti að vera áfangi í skólamáli Vestur-Íslendinga. Fyrirætlunin var sú, og er enn, að koma upp fullkomnum skóla handa stúdentaefnum, skóla, sem yrði eign kirkjufélagsins. Fyrsti vísirinn til skólasjóðsins var 100 dollara gjöf frá síra Jóni Bjarnasyni. Kirkjufélagið hafði veitt honum þessa fjárhæð úr kirkjufélagssjóði, sem þóknun fyrir ritstjórn Sameiningarinnar og hann gaf hana samstundis til þessa augnamiðs. Síðan hefir sjóðurinn aukist árlega af gjöfum og vöxtum. En stórfé vantar enn til þess, að kirkjufélagið sjái sér fært að leggja út í fyrirtækið. Á síðasta kirkjuþingi var samþykt að leggja kapp á að hrinda málinu áfram, með eftirleitun eftir samskotum. Ritari kirkjufélagsins, síra Björn B. Jónsson fór um ýmsar helztu bygðir Íslendinga í því skyni. Og honum varð töluvert ágengt. En samt ekki nándar-nærri svo

mikið, sem kirkjuþingið hafði talið nauðsynlegt.

Mér virtist margir góðir Íslendingar væru í vafa um, hvernig þeir ættu að líta á þetta mál. Engum duldist það, að gætu Íslendingar komið upp góðum skóla, þá mundi vegur þeirra vaxa að miklum mun þar í landi. En margir efuðust um, að það mundi takast. Mikið af hinum æðri mentastofnunum er í höndum kirkjufélagsmanna þar vestra. En að hinu leytinu virðist sú tilhneiging vera stöðugt að eflast, að koma skólunum undan stjórn kirkjufélaganna og undir stjórn ríkisins, en að kirkufélögin hafi það hlutverk með höndum að styðja ungmenn með ýmsum hætti meðan á námstíma þeirra stendur. Mér skildist svo sem í Manitoba væri kirkjufélögin þessari hugsjón hlynt. Og verði sú stefnan tekin, er ekki verulega líklegt, að skólamál kirkjufélagsins Vestur-Íslenzka eigi mikinn byr í vændum, eins og það hefir hingað til vakað fyrir mönnum.

Eg hlustaði á eina af þeim ræðum,

/

sem síra B. B. J. flutti í fjársöfnunarferðum sínum í haust. Hann er maður vel máli farinn og gerði ljósa og skýra grein fyrir því, er fyrir honum vakti. Tveim atriðum hélt hann einkum að mönnum. Annað var það, að skólinn mundi verða íslenzku þjóðerni í Vesturheimi til eflingar, varðveita meira eða minna af hinu bezta í þjóðernisarfi Vestur-Íslendinga. Nú er það kunnugt um hann, að hann hefir litla trú á viðhaldi íslenzks þjóðernis í Vesturheimi. Mér hefir skilist svo, sem sum ummæli hans bendi í þá átt, að hann telji vafasamt hvort viðhald íslenzks þjóðernis þar, sé einu sinni æskilegt. Hann talaði mjög gætilega um það efni í þessari ræðu. En hann færði að minsta kosti ekki nein rök að því, að íslenzk skólastofnun mundi verða neitt öflugri þjóðernisverndari, en íslenzkukensla við þær mentastofnanir, sem Vestur-Íslendingar sækja.

Þungamiðjan í ræðu hans, var ekki heldur á þessari hliðinni. Aðal áherzlan var á það lögð, að hinn fyrirhug-

aði skóli yrði kastali íslenzkrar lúterskrar kristni í Vesturheimi. Og því er ekki að leyna, að margir hafa ímugust á því augnamiði. Með þær ófrjálslyndis-tilhneigingar fyrir augum, sem óneitanlega hafa komið fram hjá kirkjufélaginu, óttast margir, að skólinn yrði í þess höndum kastali þröngsýnis og hjásætni.

Eg skal engu spá um það, hvernig málinu lýkur. En ekki virðist mér skólamálinu blása byrlega sem stendur.

## XIII.

Vestur-Íslendingar eru manna fúsastir til lesturs og ritstarfa. Það má af mörgu marka. Og meðal annars af blöðum þeirra.

Af þeim hafa þeir, að tiltölu við fólksfjölda, ógrynnin öll. Mest ber á vikublöðunum í Winnipeg, *Heimskringlu* og *Lögbergi*.

Heimskringlu stofnaði *Frímann B. Anderson* 1886. Meðritstjórar hans vorum við *Eggert Jóhannsson* frá

Steinsstöðum í Skagafirði í fyrstu. Út gefandi komst í fjárþröng eftir 3—4 mánuði, og þá varð eitthvað missiris dvöl á útkomu blaðsins. Þegar það komst á fót aftur varð Eggert Jóhanns son ritstjóri enn. Nú hefir *Baldvin L. Baldvinsson* verið ritstjóri blaðsins um mörg ár. Hann er, svo sem kunnugt er, einn af helztu Íslendingum vestra, og hefir setið á Manitoba þingi mörg ár sem fulltrúi Ný Íslendinga. Við síð ustu kosningar varð *Sigtr. Jónasson* honum sigursæll þar í kjördæminu.

Heimskringlu er stjórnað eftir öðr um reglum en nokkuru öðru blaði, sem eg þekki. Þar er alt prentað, sem blaðinu berst, fallegt og ljótt, viturlegt og vitlaust og hvorugt. Það stafar alls ekki af því, að ritstjóri beri ekki gott skyn á það, sem honum er sent. Hann er prýðis-vel skýr maður og hyggjinn, og ritfær sjálfur. En hann lítur svo á, sem svona eigi frjálslynd blöð að haga sér, varna engum manni málfrelsis í dálkum sínum og að það auki vinsældir blaðsins. Stundum hefi

eg séð þar heldur óþverraleg ónot um ritstjórann sjálfan, prentuð athugasemda aust

Eg minnist einnar greinar sem stóð í fyrsta blaðinu, er út kom, eftir er eg kom vestur Íslendingadagurinn var ný afstaðinn. Hann var í þetta sinn nokkurs konar friðar- og samkomulagshátíð Vestur-Íslendingar höfðu um allmörg ár ekki getað komið sér saman um, hvern dag hátíðin skyldi haldin Fyrsta hátíðin hafð verið haldin 2. ágúst, og við þann dag vildu sumir halda. Aðrir kusu heldur 17 júní Þetta hafði mönnum orðið svo mikið kappsmál, þó að kynlegt megi virðast, að »17 júní-menn« vildu ekki sækja samkomurnar, sem haldnar voru 2 ágúst, En nú hafði orðið að samningum að halda hátíðina 2 ágúst eftir því sem mér skildist þangað til Austur Íslendingar kæmu sér saman um einhvern annan þjóðminningardag. Og sumir þeirra manna, sem fastast höfðu haldið fram 17 júní, syndu sáttfysi sína með því að flytja ræður þennan dag Og

yfirleitt fjölmentu þeir, eins og ekkert hefði í skorist. Í þessari grein, sem eg mintist á, var sáttfýsi mannanna gerð að svívirðingarefni í þeirra garð. Og greinin var ekkert annað en óþverralegar og heimskulegar geðvonskuslettur. Við hana gerði ritstjórinn athugasemd, sem fór í þá átt, að því færi svo fjarri, að líkindi væru til þess, að greinin hefði nokkurar góðar *afleiðingar*, að hún virtist ekki vera ritað í neinum góðum *tilgangi*.

Eg sagði við sjálfan mig: Hvers vegna vera að prenta grein, sem ekki kemur neinu góðu til vegar, og er ekki einu sinni rituð í góðum tilgangi? Hvert erindi á slíkt inn í blöðin? En eg áttaði mig á því á eftir, að ritstjórinn fór þar eftir meginreglu, sem hann telur holla og góða. Vitanlega megi fara illa með hana, eins og frelsið sjálft. En það sé þá ekki á hans ábyrgð, heldur höfundanna.

Með þessari ritstjórn er Heimskringla alveg einstætt blað. Að sumu leyti sýnir hún menningarstig almennings betur

en nokkurt annað blað, sem eg þekki. Og þegar frá líður, hlýtur hún að verða, frá því sjónarmið, talin furðu merkilegt blað. Þar kemur hver til dyranna eins og hann er klæddur. En í öðrum blöðum er það tíðast, að aðrir fái ekki að sýna sig gestunum en þeir, sem eiga til einhver sparíföt. Eða þeim er þá að minsta kosti greitt, og sópað af þeim mesta rykinu. Það munu flestir ritstjórar kannast við. Og sú hliðin er ekki talin vandaminst á starfi þeirra að kunna að hafna.

Og afleiðingin af þessari ritstjórnar meginreglu hefir orðið sú, að svo mikið hefir lent hjá blaðinu af þeim höfundum, sem engir aðrir mundu vilja hýsa. Menn, sem setja saman alls kon ar óþverra. Menn, sem hvorki hafa þekking né hæfileika til ritstarfa, en alt af vilja vera eitthvað að bulla. Og það hefir jafnframt fælt þá frá blaðinu, sem ekki kunna við sig í þeim hóp. Þrátt fyrir það á blað ð víst töluverðum vinsældum að fagna. Ritstjórinn hyggur víst, að þær vinsældir stafi

að einhverju miklu leyti af því, hvað blað hans er gestrisið við vitleysurnar. Eg held, að því sé ekki svo farið. Eg held, að þær stafi eingöngu af því, hvað blaðið er jafnframt gestrisið við vitið. Það heldur uppi merki andlegs frelsis. Menn finna, að í því er þess tilverurettur fólginn. Og sá réttur er ávalt góður og gildur.

Lögberg er langstærsta blaðið, sem gefið er út á íslenzku. Það var stofnað 1888, og *Sigtr. Jónasson* átti mestan og beztan þáttinn í stofnun þess. Að því standa ýmsir af helztu Winnipeg-Íslendingum, einkum vinir síra Jóns Bjarnasonar. Forseti félagsins, sem gefur blaðið út, er Tómas Jónsson, sem eg hefi áður minst á. En ritstjórinn er *Stefán Björnsson* cand. theol. Honum kyntist eg lítið. En aðstoðarritstjóra hans dálítið meira, *Birni Pálssyni*, skálds Ólafssonar. Hann fór fyrir nokkurum árum héðan af landi til Harvard-háskólans, ætlaði að leggja stund á rafmagnsfræði, en gat ekki haldist þar við vegna féleysis. Þegar

hann hafði aflað sér fjár, hafði hann í hyggju að halda áfram námi. Og langlíklegast þykir mér að hann muni halda heim að því loknu. Það reyndi sér ekki, að hingað leitaði hugurinn. Áhuginn á málum ættjarðarinnar var mjög heitur. Hann ritaði stöðugt fréttir frá Íslandi í mesta blað Canada, *Winnipeg Free Press*.

Undir núverandi ritstjórn er Lögberg yfirleitt gætið blað og stillilega ritað, fréttablað gott og margvíslegar fróðleikur í því. Um austur-íslenzk framfaramál talar það af góðvild. En hugsjónar-tilþrif ekki mikil.

Bæði blöðin sýndu mér hina mestu alúð. Lögberg hélt mér veglega veizlu, sem gömlum ritstjóra sínum, í hinum glæsilegu sölum í íbúðarhúsi Jóns Vopna. Í veizlunni voru um 60 manns. Ræðumenn voru Tómas Jónsson, bræðurnir Magnús og Vilhelm Pálssynir og Sigtr. Jónasson. Sjaldan heyrast í samkvæmum hér á landi jafn-snjallar ræður og sumar þeirra, sem þar voru fluttar. Eg fann því meir til þeirrar

trygðar og ástúðar, sem þar kom fram við mig, sem eg vissi vel, að flesta samkvæmisgestina greind til muna á við mig um sumar þær skoðanir, sem liggja mér í mestu rúmi.

Norður á Gimli í Nýja Ísland er gefið út íslenzkt vikublað, sem heitir *Baldur*. Núverandi ritstjóri þess er síra *Jóhann P. Sólmundsson*, Unítaraprestur. Það heldur fram skoðun jafnaðarmanna í stjórnmálum og Unítara í trúmálum.

*Sameiningin*, blað kirkjufélagsins, er elzt allra íslenzkra blaða, sem nú eru uppi með Vestur-Íslendingum, stofnað 1886, og síra Jón Bjarnason hefir verið ritstjóri hennar öll árin. Blaðið hefir unnið kappsamlega að eflingu kirkjufélagsins. Og gáfur ritstjórans hafa oft komið þar glæsilega fram. Þess mikla mein er það, hve ritstjóranum er þess varnað að samþýða hugsjónir nútímans huga sínum. Menn hljóta að finna til þess, æ betur og betur, að það, sem haldið er að þeim í því blaði, veitir ekki sálum þeirra neina verulega

næring Það heyrir til fornum ferli mannsandans. Og sumt riður beint bág við þekkingu mannanna nú á tímum

Í því efni er *Breiðablikum* síra Friðriks J. Bergmanns ávöxt ófrugt farið. Þar standa hugsjónum nútímans allar dyr opnar, þó að alt sé ritað í kristilegum anda Vitanlega er blaðið einkum ætlað Vestur-Íslendingum, og að sjálfsögðu ber það þess merki. Samt er það illa farið, að það er í að eins fárra manna höndum hér heima. Blaðið er að ýmsu leyti svo vel fallið til þess að vekja hugsanir um mannkynsins mikilvægustu mál. Og verði unt að halda því áfram, verður það vafalaust stöðugt betur og betur til þess fallið, eftir því sem ritstjóranum auðnast betur og betur að átta sig í því mikla útsýni, sem okkur hefir upp fyrir anda hans síðustu árin.

Unítarar gefa út blað í Winnipeg, sem heitir *Heimir* Í því hafa staðið góðar ritgerðir. En yfirleitt er blaðið

fremur stremb ð, og ekki verulega líklegt til viðtækra áhrifa

Suðri í Minneota í Minnesóta í Bandaríkjum hefir um nokkur ár, fram að nýári, verið gefið út mánaðarblað, sem hét *Vínland* Forstöðumenn þess voru síra *Björn B. Jónsson* og *Þórður* læknir *Þórðarson* Nú er það blað hætt að koma út, og ekkert íslenzkt blað kemur sem stendur út í Bandaríkjum

Loks gefur *Margrét Benediktsson* út kvennablað í Winnipeg að mig minnir, sem heitir *Freyja* Þau eintök, sem eg hefi séð af blaðinu, hafa mér virzt með helzlur sóðalegum frágangi, og blaðið lítt við alþýðu hæfi

Nú man eg ekki eftir fleiri blöðum þar Hamingjan má samt vita, hvort þau eru ekki fleiri En hvort sem er, leynir það sér ekki, að þetta eru miklar blaða útgáfur, þegar þess alls er gætt, að Vestur Íslendingar eru ekki fleiri en þeir eru, að þeir eru dreifðir um afar stórt svæði af Vesturheimi, og margir þeirra komnir alveg út úr öllu íslenzku þjóðlífi, og sjá fráleitt nokk-

uru sinni nokkurt íslenzkt blað, og að megin þorrinn les og kaupir óhemju stór fréttablöð á enskri tungu og margs konar blöð önnur. Blaða-útgáfur eru frá eitt jafnmiklar með nokkurri annari þjóð í Vesturheimi, að tiltölu við fólksfjölda. Né heldur tilhneiging til þess að taka þátt í umræðum um alls konar mál.

## XIV

A öðrum degi, eftir er eg kom til Winnipeg, fór eg norður að Gimli, og dvaldist þar um þriggja vikna tíma hjá síra Friðrik Bergmann og frú hans, Guðrúnu dóttur síra Magnúss Thorlasius, en systur síra Hallgríms í Glaumbæ.

Að Gimli er helzti staðurinn í Nýja Íslandi, elztu Íslendingabygðinni í Canada. Þar er all álitlegt þorp, á stærð við Húsavík. Þar er endir járnbrautarinnar, sem liggur norður að Winnipegvatni. Þar eru tvær fallegar kirkjur, önnur eign Lúterstrúarmanna, hin eign

Únítara, og sinn presturinn við hvora, síra Runólfur Marteinsson og síra Jóhann P. Sólmundsson. Vikublað er þar gefið út, Baldur. Gistihús eru tvö, bæði með áfengisveitingum. Verzlanir eru margar, svo margar, að mér var ekki ljóst, hvernig þær ættu allar að geta þrífist. Lóðin undir eitt verzlunarhúsið hafði þá nýlega verið keypt fyrir 2000 dollara, eftir því sem mér var sagt. Það bendir á, hvert traust menn hafa á framtíð þessa litla bæjar. Hann er alíslenzkur.

Aðalstræti þorpsins er víst um helmingi breiðara en breiðasta stræti Reykjavíkur, og gangstéttir úr timbri, voru þær beggja megin. En annars var þar blessunarlega sveitalegt. Kýrnar urðu manni samferða um bæinn og bauluðu að manni einstaklega vingjarnlega. Og sauðfé sveitarmanna bældi sig kringum kirkjurnar, á nóttum, eins og á kvíaból, hörfaði þangað ofan úr skógunum, undan úlfum var mér sagt. Eg heyrði að þessa umferð af skepnum ætti bráðlega að banna, þegar

þorpið hefir fengið bæjarréttindi, sem voru væntanleg. En eg fann, að eg mundi kunna þar ver við mig, ef eg ætti þar heima, þegar þeirri breyting hefði fengist framgengt.

Margir Winnipeg-Íslendingar hafast við þar nyrðra, að meira eða minna leyti, að sumrinu. Og sjálfsagt fer sú aðsókn vaxandi. Einkum eru þar húsfreyjur með börnum sínum um heitasta tímann, og menn þeirra koma og heimsækja fjölskyldur sínar um helgar. Sumir efnaðir Íslendingar hafa reist sér þar sumarhýsi.

Nýja Ísland er lang íslenzkasta nýlenda Íslendinga vestan hafs, vegna þess, hve afskekt það hefir verið. Það hefir átt langt til járnbrautar, og þar hafa menn átt tiltölulega lítið saman við enskumælandi menn að sælda. Verklegar framfarir hafa orðið þar minni en annarstaðar, sumpart vegna örðugleika, sumpart vegna þess, að framsóknarandinn hefir ekki orðið þar jafn-ríkur. Þar höfðu menn ekki dæmi annarra stöðugt fyrir augum, og þar

vandaði samkeppni við aðrar þjóðir. Nú eru Galiziumenn farnir að setjast að í nágrenni við þá og innan um þá. Þeir standa á langtum lægra andlegu stigi en Íslendingar, eru mentunar-snauðir durgar. En þeir eru vinnuvargar mestu, þrælka sjálfa sig, og konur sínar ekki síður, og eru ágjarnir til fjár og landa. Eg heyrði suma menn bera kvíðboga fyrir því, að þeir mundu með tímanum eggja undir sig Nýja Ísland, kaupa jarðir Íslendinga og ryðja þeim burt. Eg veit ekki, hvort sá ótti er á verulegum rökum bygður. En illa væri það farið, ef sú yrði raunin á. Nýja Ísland verður víst fyrirtaks kostaland, þegar menning nú-tímans verður farin að njóta sín þar að fullu.

Ný-Íslendingar eru ekki miklir bænd-ur eftir amerískum mælikvarða. En þeir lesa því meira og hugsa því meira. Eg efast um, að í þeim efnum taki nokkurir Íslendingar þeim fram. Með þeim hafa oft verið miklar erjur um andleg mál, alt frá þeim tíma, er þeir

prestarnir Jón Bjarnason og Páll Þorláksson áttust þar við á fyrstu árum nýlendunnar og fram að þessu. Um tíma hneigðist mikill fjöldi manna þar að Unitaratrú undir forustu síra Magnúss J. Skaftasonar. Nú mun vera fremur sókn en vörn af hendi Lúterstrúarmanna.

Mig langaði til þess að kynnast mönnum þar miklu meira en eg átti kost á. Mestur tíminn fór fyrir mér í megnan lasleik og annir við að búa mig undir erindi um sjálfstæðismál Íslands. En mikið fanst mér um fjörið og margbreytnina í hugum manna. Í stjórnmálunum er mikið kapp, ekki sízt með jafnaðarmönnum þar. Ekki er minni áhuginn á kirkjumálunum, enda Lúterstrúarmenn og Unitarar þar í einna mestu návígi. Einn gamall Skagfirðingur virtist kunna allar Íslendingasögur, að Sturlungu meðtalinni. Sumir höfðu kynst blöðum spiritista og fanst mikið um. Og auðfundið var, að dulspeki Austurlanda hafði ekki farið fram hjá öllum húsunum, án þess

að gera vart við sig. Öllu, sem ritað er á Íslandi virtust menn kunnugir, en mikið kvartað undan, hve ógreitt gengi að ná í íslenzkar bækur. Alstaðar gáfur, og stöðugt hungur eftir einhverri andlegri fæðu.

Svona fundust mér, í stuttu máli, þeir sem eg kynti st þar nyrðra. Eins er samt ógetið, sem ef til vill er íslenzkast af öllu. Það er bardagahugurinn. Mér finst nýtt útsýni, ný þekking, ákveðin sannfæring veiti Íslendingseðlinu svo furðu-lítinn frið, þar sem skrið er komið á lífið á annað borð. Öllu hættir fremur við að lenda í orustum en í kyrlátri viðleitni hugarins við að færa sér verulega í nyt þann andlegan auð, sem sálunni kann að hafa borist.

Eg var viðstaddur eina orrahríðina. Hún var háð af Únitörum í kirkju þeirra. Þeir stofnuðu til málfundar út af erindi, sem síra Friðrik Bergmann hafði flutt á kirkjuþingi þá um sumarið. Hann hafði þar mælt með umburðarlyndi og bróðurhug með þeim

mönnum, sem mismunandi skoðanir hafa á trúmálum. Á það erindi var alment litið sem viðvörun við andlegu ofbeldi, sem mönnum hefir þótt nokkuð brenna við innan kirkjufélagsins. Sú viðvörun var tekin mjög óstint upp af síra Jóni Bjarnasyni og hans fylgismönnum, enda skeytunum þangað bent. Ætla mátti, að Únítarar kynnu því vel, að menn væru áminntir um að láta þá í frið. En þeir kunnu því hið versta — þeir leiðtogar þeirra að minsta kosti, sem tóku til máls. Ræðurnar voru snjallar. En mig furðaði á efninu í þeim. Ófriðarhugurinn var svo magnaður. Sjónir hvestar svo fast á ágreiningsatriðum. En skilningur svo lítill á það, sem góðum mönnum er sameiginlegt. Eg fann til þess sárt, meðan eg var að hlusta á þessar ræður, hver ókjör af gáfum og drengskap hlytu að fara til spillis í öllu þessu hvassviðri.

Einn þeirra manna, sem tóku til máls á þessum fundi, var Einar Ólafsson, ritstjóri Baldurs, ókvæntur maður,

nálægt fertugu. Hann talaði af krafti og ástríðu, eins og hvert orð væri slitið frá hjartarótum hans með sársauka, en jafnframt með óþjálli karlmensku. Ekki var um það að villast, að þá var talað af sannfæring. Eg hlustaði á hann hugfanginn, þó að eg væri naumast samdóma nokkurri setningu. Ekki hafði neinn mikið hugboð um það þá, að þetta mundi verða síðasta ræðan, sem maðurinn flytti í þessum heimi.

Eg frétti það síðar, að eftir fundinn hefði hann setið á tali lengi nætur við vin sinn síra Jóh. P. Sólmundsson. Þeir töluðu um eilífðina. Einar Ólafsson trúði fastlega á framhald lífsins eftir andlátið, og það fanst honum líkast því, sem að ganga úr einu herbergi í annað.

Daginn eftir kom eg inn í skrifstofu hans um hádegið, talaði við hann nokkur orð og fekk hjá honum leiðbeining um það, sem eg hafði með höndum. Menn voru að fara úr prentsmiðju hans heim til miðdagsverðar.

Hann var rólegur og eins og hann átti að sér í öllu fasi. Eg kvaddi og hélt út. Hann varð eftir.

Fáeinum mínútum síðar var hann liðið lík — hafði stytt sér aldur með skammbyssu.

Fáum dögum síðar var eg við jarðarför hans. Unítarar stóðu fyrir henni. Hinn látni hafði verið einn af helztu mönnum í þeirra flokki. Fjöldi fólks var þar saman kominn, sumir langt að. Síra Jóhann treysti sér ekki til þess að tala, var of ástfólginn vinur hins framliðna manns til þess. En nokkurir vinir hans úr leikmannaflokki töluðu. Bezt þeirra allra mæltist Skafta B. Brynjólfssyni frá Skeggstöðum í Húnavatnssýslu. Hann er einn þeirra Íslendinga, vestan hafs og austan, sem bezt eru máli farnir. Jafn-góða mannlýsing og hann kom með hefi eg aldrei heyrt við neina jarðarför. Trúarbragða-blær var fremur lítill á samkomunni. En auðheyrt, að allir vöruðust að segja annað en það, sem þeir í raun og veru báru fyrir brjósti.

## XV

Fyrstu ferðir mínar út í nýlendur Íslendinga, eftir er ég hafði til Nýja-Íslands farið, voru til Argyle-nýlendu og nýlendunnar í Dakota. Síra Friðrik Bergmann fór báðar þær ferðir með mér. Eins og menn geta nærri, jók það ekki lítið ánægjuna.

Þessar tvær nýlendur, og bygð landa vorra í Minnesota, eru lengst komnar í búnaði og nútíðarmenning. Sumstaðar eru að myndast stórbýli með skrauthýsum. Bændur leggja þá undir sig lönd nágranna sinna. Annars man ég eftir því, að orð var á því haft í Dakota, að sumum stórbændunum þættu jarðir sínar of stórar. Þeir gætu ekki komið því við að rækta svo mikil flæmi, jafnvel og þyrfti, og af því stafaði illgresi, sem spilti ökrunum.

Bænda híbýlin, sem ég sá í þessum nýlendum, voru heldur en ekki viðbrigði frá þeim sem almennust voru, meðan ég átti heima vestra. Þá voru húsin að jafnaði svo lítil, sem minst varð komist af með þau, og veggirnir

hlaðnir úr óhefluðum viðarbolum, sem greyptir voru saman á endunum. Kalki var slett í rifurnar. Sjaldnast neinar þiljur, né neitt annað, innan á þessum veggjum. Og húsgögn öll hin lítilfjörlegustu. Auðvitað voru einstöku menn komnir út úr þessum húsakynnum, og inn í önnur veglegri. En þessi voru algengust.

Nú virtist mér sem fyrirtaks-góð hús væru að verða almenn í þessum nýlendum. Einkum samt í Dakotanýlendunni. Eg kom inn í eitt hús til bónda í Mountain, Metúsalems Einarssonar. Það hafði kostað 5000 dollara, en óhugsanlegt að koma því upp fyrir það verð í Reykjavík. Öll nútíðarþægindi voru þar: miðstöðvarhitun, acetylen-gasljós, vatnsveita. Húsgögn öll hin prýðilegustu. En það var mér sagt, að mundi vera veglegast allra íslenzkra bændahíbýla vestan hafs. Mig minnir, að eg heyrði, að maðurinn hefði komið fyrir 15 árum til Vesturheims, bláfátækur. Talsími er algengur orðinn á bændabýlum í þessum nýlendum.

Og sunnan landamæranna eru bændum færðar heim póstsendingar daglega ókeypis. Þegar þetta er alt fengið, fer bændastaðan að verða i meira lagi viðkunnanleg.

Glenboro heitir annað af þeim tveimur kauptúnum, sem Argylemenn hafa mest viðskifti við. Síra Friðrik Hallgrímsson tók þar á móti okkur á járnbrautarstöðinni, og flutti okkur heim til sín í vagni sínum, nokkurar mílur enskar út i nýlenduna. Kvöldið var yndislega fagurt, hestarnir fjörugir og prestur ekki annað en ástúð og glaðværð.

Prestsetrið hafa safnaðarmenn reist fyrir nokkuð mörgum árum. Lítið hús, en snoturt, og heimilið að öllu fyrirtaks vistlegt. Prestkona bað okkur vera velkomna af mestu alúð, og hafði fyrirbúið okkur veizlu með ágætum réttum.

Ekki gátum við tafarlaust sezt að máltíð, þó að ekki stæði á húsfreyju. »Nú þarf eg að fara í ‚gallann‘«,

sagði prestur, þegar hann hafði vísað okkur til sætis.

Eg skildi ekki, hvað hann átti við, og leit á hann spurnaraugum

»Eg á við fjósfötin«, mælti hann þá. »Nú verð eg að fara að sjá um beljurnar og hestana mína.«

Og hann fór fram og hafði fataskifti í snatri.

Þau hjónin áttu fjögur ung börn, hið yngsta á 1. ári. Og þau höfðu enga aðstoð til heimilisþarfa, aðra en móður prestkonu, sem mjög var farin að heilsu. Á slíkum heimilum er erfitt að taka á móti gestum og hafa mikið fyrir þeim, eins og hér var gert. Vinnukonuleysið var hið eina, sem þau kvörtuðu undan. Stúlka hafði verið með öllu ófáanleg um sumartímann. Eg kom til þeirra síðar um haustið, og þá höfðu þau fengið stúlku, og guldu henni 15 dollara um mánuðinn.

Annars virtust þau una vel hag sínum, og sögðu, að söfnuðirnir bæru þau á höndum sér. Enda var svo að

heyra á þeim safnaðarmönnum, sem eg átti tal við, sem þeir teldu það mikið lán að hafa fengið slíkan prest

Við vorum þar á 3. dag í miklum fagnaði. Eg flutti erindi um sjálfstæðismál Íslands á tveim stöðum í nýlendunni og heimsótti gamla kunningja

Að Argyleförinni lokinni, héldum við suður til Dakota. Dr Moritz Halldórsson í Park River lét flytja okkur í bifreið heim til sín frá járnbrautarstöðinni í Grafton. 18 - 20 enskar mílur, að mig minnir Eftir því voru allar viðtökurnar þar Mér fanst hann hafa yngst en ekki elzt, líkamlega og andlega, síðan er eg hafði farið heim til Íslands, 12 árum áður Hann hefir jafnan átt afarannríkt við lækningar, heima fyrir og úti um allar sveitir Sú skoðun hefir orðið æði almenn, og haldið sér öll þessi ár, að hjá honum sé þrautalending þeirra sjúklinga, sem ekki hafa fengið hjálp annarsstaðar, og hefir hann samt átt megnri mótspyrnu að sæta, og hennar stundum ekki sem drengilegastri, að því er

mér skildist. Sagt var mér, að mestur svefn hans mundi um margt skeið hafa verið í vagninum á ferðalögum til sjúklinga. En ekkert hefir á honum unnið. Á því furðaði mig ekki svo mjög. Þrótturinn í ættinni er vitanlega óvenjulega mikill. Hitt þótti mér meiri furðu gegna, hve mikla þekking hann hafði á ýmsum vísindalegum rannsókn um nútímans, og hve mikinn skilning og áhuga hann hafði á nýjum andleg um hreyfingum. Ég skildi ekki, hvenær hann hefði fengið tóm til alls þess lesturs.

Eg verð að fara fljótt yfir söguna. Það liggur í augum uppi, að eg get ekki minnst allra þeirra, sem sýndu mér gestrisni og margvíslega góðvild. Það yrði Norðurl. of langt mál, þeir voru svo margir.

Dr. M. H. flutti okkur norður að Gardar. Þar gistum við hjá vini mínum E. H. Bergman, frænda síra Friðriks. Hann var um mörg ár einn af mestu bændum Vestur-Íslendinga, og mér var sagt, að hann væri stórefnaður maður. Hann á tvo sonu, sem báð

ir hafa verið til menta settir. Annar er búsettur í Winnipeg, og hefir lokið lögfræðiprófi bæði í Bandaríkjum og Canada. Hinn fæst við landsölu sunnan landamæranna, vestur í Montana, að mig minnir. Hvorugur þeirra valdi búa. Svo Bergman hefir selt jörð sína, haldið að eins eftir ofurlitlum bletti og reist sér þar litið, snoturt hús í skógarjaðri. Þar hefst hann við með konu sinni og dóttur ógefinni. Mér fanst eg sjá eftir jörðinni, eins og hún kæmi mér mikið við. Mér fanst svo ánægjulegt að hugsa til þess, að þessi stórbýli, sem mundu verða talin herragarðar í Norðurálfulöndunum, og komið hefir verið í rækt af svo mikilli atorku og mannviti, yrðu, kynslóð eftir kynslóð, aðsetur íslenzkra manna, og að þau mættu ekki úr ættunum ganga.

Næsti áfangastaður var að Mountain, hinu glæsilega heimili Elis Thorvaldssonar, Austfirðings, kaupmanns og gjaldkera Pembinacauntys, eins af mesta atkvæðamönnum þar nærlendis. Og þriðji áfangastaður var að Akra,

hjá síra Hans Thorgrímsen. Hann er álíka góður heim að sækja eins og faðir hans heitinn var og systir hans á Eyrarbakka er, og vita margir, að þá er langt jafnað. Hann er tvíkvæntur - báðar konurnar af norskum ættum — og á margt barna. Heimilið er full af glaðværð og söng. Síra H. Th. er einhver mestur söngfrömuður með Vestur-Íslendingum. Og síðustu árin hefir hann staðið fyrir hljómleikum í sambandi við kirkjuþingin. Enskumælandi mönnum hefir fundist mikið til um þær skemtanir, og þær hafa verið Íslendingum til sæmdar.

Á þessum þrem stöðum, sem eg hefi nú nefnt, Gardar, Mountain og Akra, flutti eg erindi um sjálfstæðismál vort. Uppskera var byrjuð og annríki afarmikið. Samt voru þessar samkomur fjölsóttar. Gestirnir létu hvarvetna uppi mikinn áhuga á þessu mikilvæga þjóðmáli voru. Vestur-Íslendingar hafa sýnt það í sumar, að einlægnin hefir verið mikil í því efni.

## XVI.

Skömmu síðar skauzt eg aftur suður fyrir landamærin til Pembinabæjar. Tveir góðkunningjar mínir þar, Gunnlaugur Pétursson lögfræðingur og rétt arritari (clerk of the court) og Brand ur Johnsson (Gíslason frá Saurum) höfðu sent mér tilmæli um að koma, og tóku mér tveim höndum, þegar eg kom

En nærri lá, að eg yrði fyrir dálítl um farartálma.

Þó að Bandaríkjamenn séu sjálfsagt gestrisnir menn—að minsta kosti allir þeir sem eg þekki—þá er *stjórn* þeirra það ekki Hún hefir fengið svo mikið af innstjöfnum gestum, að hún er hætt að bjóða þeim í bæinn umsvifalaust, eins og flestar aðrar siðaðar þjóðir gera Canadamenn mega koma þang að rekistefnulaust, ef þeir æt!a að eins að fara þar um, en ekki setjast þar að Á öðrum á að fara fram læknisskoðun og þeir verða að greiða talsvert gjald fyrir að mega koma inn í landið Þá fyrst fá þeir vottorð um

það, að járnbrautarfélögin megi selja þeim farseðil.

Eg hafði heyrt eitthvað óljóst af þessu, áður en eg lagði af stað með síra Friðrik. En eg hafði ekkert sint því. Og nú ætlaði eg að ganga á sama lagið, keypti mér farseðil á járnbrautarstöðinni, settist inn í einn vagninn, dálítilli stundu áður en lestin fór af stað og fór að lesa í bók.

Þá kom til mín maður í einkennisbúningi. Hann spurði mig, hvert eg ætlaði. — Til Pembina. — Hvort eg ætti heima í Winnipeg. — Nei. — Einhversstaðar í Canada? Nei. Hvar eg ætti þá heima? Á Íslandi. — Hvort eg hefði þá nokkurt skírteini — Nei. Það yrði eg að fá. Annars mætti eg ekki fara suður. Eg sagðist ekki hafa tíma til þess, lestin væri á förum, og eg ætti að flytja fyrirlestur í Pembina í kvöld. — Hann þjarkaði við mig stundarkorn. En eg lét engan bilbug á mér finna. Eg vissi að hann gat ekki með neinu móti aftrað för minni. Hann ekki bannað mér

að fara með lestinni til þeirrar stöðvar, sem næst var landamærum Canadamegin. Og yrði eg rekinn út úr lestinni þar, þá þurfti eg ekki annað en senda löndum mínum í Pembina símskeyti þaðan um að sækja mig í vagni. — Loks spurði hann mig, hvenær eg ætlaði að koma aftur. A morgun. - Jæja, fyrst samkoman væri auglýst í kvöld, og eg ætlaði að koma aftur á morgun, þá væri bezt, að hann slepti mér. En eg mætti ekki vera lengur í Bandaríkjunum en þessa einu nótt. Og við kvöddumst með virktum.

Eg fór síðar ferð suður í Bandaríki, sem eg mun minnast á lítið eitt, áður en þessum pistlum verður lokið. Í þá ferð vildi eg ekki leggja annan veg en vera laga ega frjáls ferða minna. Svo að eg lagði leið mína inn í innflutningsstofu Bandaríkjastjórnar í Winnipeg.

Þar var fjöldi fólks, sem beið afgreiðslu. Alt sýnilega útlendir innflytjendur, fátæklegt þreytulegt fólk, margar konur með smábörn, sum á brjósti

Mér sýndist eg sjá á þeim angistina — hvort það mundi sleppa gegnum hreinsunareldinn, eða verða flutt aftur í þá kvalastaði, sem það hafði komið úr. Eg þóttist sjá, að hvaðan sem fólkið væri komið, þá hefði það átt þar illt. Og að nú mundu allar hugsanir vera orðnar sljóar í höfðinu á þessum örþreyttu manneskjum, aðrar en sú að komast inn í hið fyrirheitna land.

Eg náði í embættismann, sagði honum í snatri hvernig til hagaði um ferðir mínar, að eg ætlaði í fyrirlestraferð til Bandaríkjanna, hefði auglýst samkomur á tilteknum stundum og yrði að leggja af stað samdægurs. Spurði, hvort eg gæti ekki farið þetta eins og eg stæði. Nei, eg yrði að greiða gjaldið. 4 dollarar mun það hafa verið — láta lækni þar í skrifstofunni skoða mig og fá skírteini. En eg skyldi verða afgreiddur fljótt, og mér skyldu verða gerð svo lítil óþægindi, sem unt væri að komast af með.

Skrifstofumennirnir voru hinir alúð-

leguslu. Mér fanst þeir hálfskammast sín fyrir að vera skyldir til þess að gera nokkura rekistefnu út af jafn meinlausu erindi og því, sem eg hafði meðferðis til Bandaríkjanna. Læknisskoðunin var í því fólgin, að læknir í skrifstofunni leit framan í mig. En spurður var eg að fjöldamörgum spurningum, og alt bókað — hvað eg héti, hvað eg væri gamall, hvar eg ætti heima, hvaða atvinnu eg hefði, hvað konan mín héti, og eg man ekki hvað.

Loks var farið að spyrja mig, þó að ekki ætti að bóka það, hvernig mér litist á hóp inn þarna frammi. Mér varð fátt um svör. »Fólkið sýnist vera þreytt,« sagði eg, til þess að segja eitthvað.

»Verra samsafn af lygurum finnið þér ekki á bygðu bóli. Við vitum, að enginn maður þarna frammi segir okkur nokkurt orð satt,« sagði yfirmaður skrifstofunnar.

Eg vildi ekki tefja tímann á því að spyrja hann, hvernig hann vissi þetta svona nákvæmlega.

En auðheyrt var það, að maðurinn var ekki í neinum vafa.

## XVII.

Næsta langferð mín var vestur undir Klettafjöll, til Íslendinga-nýlendunnar í fylkinu Alberta.

Eg lagði af stað um kvöld frá Winnipeg með Kyrrahafsbrautinni, hélt áfram alla nóttina, allan næsta dag, og aðra nótt til, alla. Viðstöður ekki nema nokkur andartök á járnbrautarstöðvum. Annars stöðug flugsending áfram yfir sléttuhafið. Nokkuð af leiðinni ófrjótt land með einstaka kofa á stangli. Mér fanst útilegumenn eiga heima í þeim, eins og aðrir gætu ekki átt neitt erindi út í þá eyðimörk. En langmest af landinu aldingarðs-efni.

Til þess að komast til Winnipeg hafði eg áður farið 2½ sólarhring um Canada með Kyrrahafsbrautinni. Nú bættist 1½ sólarhringur við. Eg hugsaði um það geisimikla stórveldi, sem mennirnir væru að koma sér hér upp.

Og gaman þótti mér það í öðru veifinu að Íslendingar, ekki fleiri en þeir eru alls, skuli eiga sinn þátt í að byggja þetta yndislega menningarland. Ég kom til bæjarins Calgary tveim stundum eftir miðjan morgun. Þar fór ég út úr lestinni og hélt samstundis af stað með annari járnbraut, sem liggur norður í landið, nokkuð fyrir austan Klettafjöllin, til bæjarins Edmonton. Á miðri þeirri leið, í bænum Red Deer ætlaði ég mér áfangastað.

Red Deer er á svipaðri stærð og Akureyri eða Ísafjörður. Íbúar eitthvað 2000. En mikið er Canada bærinn veglegri. Götur reglulegar og gangstéttir víða um hann úr timbri. Og húsin mikil sum og falleg.

Ég hélt af járnbrautarstöðinni í næsta gistihús og fékk mér þar morgunverð. Ég spurði eftir einu Íslendingnum þar í bænum, sem ég hafði spurnir af, *Indriða Reinholt*. — hvort maðurinn þekti þann mann. Hann leit á mig stórum augum.

já, eg þekk. hann vel. Við þekkjum all r Mr Reinholt

Eg fann, að honum fanst eitthvað likt spurt, eins og ef gamall Reykvíkingur væri spurður að því, hvort hann þekti mann, sem héti Magnús Stephensen eða Björn Jónsson ritstjóri

Og mig furðað. ekki á því, að menn þektu hann, þegar eg fekk vitneskju um það, er hann hafði að hafst þar

Indriði Reinholt er sonur Friðriks Reinholts, sem var í Reykhúsum, í Eyjafirði, áður en hann fluttist vestur um haf Indriði kom t l Vesturheims 1876 15 ára gamall

Til Red Deer kom hann vorið 1902 Efnalitl. mun hann þá hafa verið. Mig minnir, að hann segði mér, að hann hefði haft 500 dollara úr að spila En ekk. hefi eg skrifað það í minnisblöð min.

Nú ætla eg að segja mönnum ágrip af því, sem hann hafði haft fyrir stafni þau 5 ár, sem liðin voru frá því er hann kom t l Red Deer og þar til er eg talaði við hann. Eg skrifaði það

hjá mér jafnóðum og hann sagði mér það. Menn fá af því ágripi ofurlitla hugmynd um líf íslenzkra atorkumanna í Vesturheimi.

Fyrsta sumarið tók Reinholt að sér að reisa pósthús bæjarins fyrir 10 þús. dollara.

Um röðina á öðrum athöfnum hans þeim er hér fara á eftir, veit eg ekki, enda skiftir hún engu.

Spítala hefir hann reist í bænum fyrir 15,000 dollara. Honum var komið upp eingöngu með frjálsum samskotum, til minningar um unga menn frá Redd Deer, sem fallið höfðu í Búa ófriðnum. Og hann er nefndur Memorial Hospital.

Tvö bankahús, annað fyrir 9,000, hitt 20,000 dollara.

Verzlunarhús fyrir 9,000 dollara.

Kirkju fyrir Presbyterana 9,000 dollara.

Aðra kirkju fyrir biskupakirkjumenn 10,000 dollara.

Barnaskóla bæjarins fyrir 45,000. Eg fór að hugsa um að sá barnaskóli

mundi hafa þótt kostnaðarsamur á Akureyri eða Ísafirði. Eg fór um hann á lan. Honum hefði fráleitt verið komið upp hér á landi fyrir það verð, kr 166,500, ef dollarinn er talinn kr 3.70.

Skurð hefir hann grafið fyrir sög. unarmylnufélag eitt. úr ánni Red Deer sem bærinn dregur nafn af. Skurðurinn er 3 enskar mílur á lengd, 35 feta breiður að meðaltali, 3 12 fet á dýpt, og steingarður í sambandi við hann, 1300 feta langur, 8 feta breiður og 4 - 10 feta hár. Þetta verk kostaði 11,000 dollara.

Þá eru skurðir fyrir skolpræsi bæjarins, meira en 9,000 feta langir, um 19,000 dollara.

Stýflu hefir hann, ásamt öðrum, gert f á t l rafmagnsstöðvar, búið til foss. Hans hluti af því verki nam 600 dollurum.

Prentstofu hefir hann reist fyrir 1600 dollara og kaffihús fyrir 2500 dollara. Búð og samkomuhús fyrir 5,000 dollara og hringhús fyrir járnbrautarvagna fyrir 5,000 dollara.

Stræti hefir hann malarborið fyrir 5,000 dollara.

Skóg hefir hann rutt fyrir aðra af 400 ekrum, hreinsað jarðveginn algerlega, plægt og herfað spilduna og tínt úr rætur eftir herfingu. Fyrir það voru goldnir 15—16 dollarar á ekruna.

Fyrir sjálfan sig hafði hann reist 12 íveruhús og selt þau flest.

Land hafði hann keypt árinu áður en eg talaði við hann, þar af hafði hann lokið við að ryðja skóg og kjarr af 75 ekrum, og plægt 85 ekrur.

Fjórum árum áður hafði hann líka keypt land, rutt af því skóginum og reist hús á því.

Þegar eg kom til hans, var í smíðum kirkja, sem hann hafði tekið að sér að koma upp. Hann hafði lokið við kjallarann, sem kostaði 5,000 dollara. En öll átti kirkjan að kosta 32,000 dollara.

Á annað hundrað manna hafði hann stundum haft í vinnu í einu.

Hann átti 80 hesta, 12 sleða, 12

vagna, gasóhnvél til þess að hræra sementssteypu, og annan útbúnað til hennar fyrir 1100 dollara

Eg geri ráð fyrir, að lesendur verði mér sammála um það, að eitthvað hafi sá maður haft um að hugsa, sem leysir þetta alt af hendi á 5 árum í canadiskri samkepni Eg segi um sjálfan mig, að mér liggur við að sundla, þegar eg hugsa um þá vitsmuni og fyrirhyggju, sem til þess hlýtur að þurfa að geta gert þetta, og byrja á slíku starfi hér um bil efnalaus.

Reinholt tók mér tveim höndum, eins og bróður sínum. Honum þótti það illa farið, að hann skyldi ekki hafa sótt mig á járnbrautarstöðina, hafði misskilið skeytið, sem hann hafði fengið um komu mína, átti ekki von á mér fyr en daginn eftir Um kvöldið kom hann á fyrirlestrar-samkomu með þeim fáu Íslendingum, sem heima áttu í bænum Og eg gisti hjá honum um nóttina

Þegar eg leit út um morguninn,

var jörð alþakin snjó. Þetta var 22. sept. Gránað hafði áður nokkura daga undanfarna. Snjórinn tók upp að nokkuru, þegar fram á daginn kom.

Reinholt Fulti mig sjálfur langa leið, út í Íslendingabygðina. Við röbbuðum margt saman. Þar á meðal um íslenzku hestana. Hann hafði svo mikið með hestum afkastað — sjálfsagt meira en flestir aðrir Íslendingar. Og honum var hugleikið að koma mér í skilning um það, að það væri framkvæmdum hér á landi til mikillar fyrirstöðu, hvað hestarnir væru smáir og þróttlitlir. Hann hafði enga trú á því, að neitt svipuðu yrði afkastað hér á landi eins og gerðist í öðrum löndum, meðan ekki væri bót ráðin á þessu. Reiðhestunum gætum við haldið, ef við vildum. En á hestunum, sem ætlaðir væru fyrir vagna og plóga, yrði að verða breyting. Eg færði í tal ýmsa annmarka. sem eg hafði heyrt talað um á útlendum hestum, að þeim væri kvillagjarnt, að þeir þyldu ekki útigang, o. s. frv. Hann

fullyrt, að fá mætti hesta, sem gengju úti alveg eins vel og íslenzkir hestar, og væru jafn heilsugóðir.

Eg gisti aftur hjá Reinholt, mér til mikillar ánægju, þegar eg kom utan úr nýlendunni, og flutti þá Íslendingum í Red Deer annað erindi. Og eg skildist við hann með ríkri tilfinning þess, hve ánægjulegt það sé, að Íslendingar séu að leggja veigamikinn skerf til menningarlífsins úti um heiminn og að enn ánægjulegra væri það samt, ef ættjörð vor þyrfti ekki að fara á mis við neina slíka krafta, sem hún hefir sjálf alið.

## XVIII

Að því leyti var ófrýnilegt að litast um í bygð Íslendinga þar vestra, að korn þeirra hafði lent undir snjó. Það var stórskemt að bygginu undanteknu. Snjóveður hafði verið þar öðruhvoru heila viku, og hefði þótt vond tíð, fyrir réttir, á Íslandi. En bygðarmenn æðruðust alls ekkert. Kornyrkja er auka-

atvinnugrein þeirra. Kvikfjárræktin er aðalatriðið, einkum nautgriparæktin.

Sveitin er fögur. Hvergi hefir mér þótt jafn fallegt, þar sem eg hefi komið í bygðir Vestur-Íslendinga. Klettafjöllin gnæfa í vestri. Á rennur um sveitina. Landið er hæðótt og skógarbelti hér og þar. Mér fanst mér mundi auðveldara, að öðru jöfnu, að una mér þar en á sléttunum.

Ekki skildist mér svo, sem Íslendingar hefðu safnað þar auði. En bjargálnamenn eru þeir víst flestir. Húsakynni eru þar til muna frumbýlislegri en í gömlu nýlendunum austur frá, enda er þessi bygð yngri — samt undir 20 ára gömul.

Reinholt fylgdi mér til *Stephans G. Stephanssonar*, skáldsins. Þangað var gaman að koma. Ástúð og fjör og vitsmunir urðu þar fyrir mér í svo ríkum mæli.

Húsakynni eru einkennilega snotur að utan. Við húsið hefir verið aukið hvað eftir annað, eftir því sem þarfirnar uxu. Fjölskyldan hefir haldist

saman, þó að börn skáldsins yrðu fulltíða menn og staðfestu ráð sitt. Og fjölskyldan er orðin mannmörg. Mikið af henni er í föðurhúsum, hitt í húsi rétt hjá. Mig furðaði á, hve húsið hafði orðið fallegt að utan með þessum viðaukum. Að innan er það frumbýlingslegra.

Efnin eru ekki meiri en svo, að Stephán þarf enn að vinna stritvinnu. Jafnframt því les hann mikið. Hann er áhugamaður um landsmál. Og mér var sagt, að hann gæti ráðið öllu í bygð sinni, því er hann hirti um að ráða. Mér skildist svo, sem bygðarmönnum þætti sæmdarauki að honum, enda furða eg mig ekki á því. Annað mál er það, hvort sæmdin er jafnmikil okkur Austur-Íslendingum að geyma eitt af beztu skáldum þjóðar innar vestur undir Klettafjöllum og hafa hann þar í moldarmokstri. Vist in þar er honum vafalaust útlegð, þó að hann hafi fengið áhuga á þarlendum málum. Maðurinn er svo rammíslenzkur í anda. Ekki skildist mér, sem

hann langað til þess að koma heim til Íslands snöggva ferð. Eg hygg, að honum veitti örðugt að fara aftur. En ætti hann kost á að lifa hér áhyggjulitlu lífi, það sem eftir væri æfinnar, mundi hann taka því með fögnuði. Annars ekki auðhlaupið að því að masa við hann um þá hagi hans og innstu hugsanir, sem hann telur árangurslaust að tala um. Því að maðurinn er dulur.

Eg var tvo daga heima hjá honum og á ferð með honum um sveitina. Um skáldskap sinn vildi hann ekki tala, vísaði mér til bókar, sem fáeinir Vestur-Íslendingar ætla að koma út eftir hann, og sjálfsagt er væntanleg innan skamms. En auðvitað bar margt á góma. Eg skal geta þess eins, að við töluðum nokkuð um lýðskólana vestra, og alla þá skólamentun, sem menn ættu kost á þar. Hann hugði, að skólarnir hefðu meðfram þau áhrif að veikja andlegt sjálfstæði manna, og tæplega mundi hugsanalíf hinnar yngri kynslóðar vera jafn veigamikið og hinn-

ar eldri sem hefði þurft, að svo miklu leyti að afla sér sjálf þekkingarinnar og hugsanaforðans. Sjálfsagt hefir honum fremur orðið að miða þar við sjálfan sig, en meðalmenn af jafnöldrum sínum. En hitt er ómótmælanlegt, sem hann fann mikið til, að þekkingarauki nn er mjög hægfara í skólum yfirleitt, og að gáfuðum unglingum er þar tímaeyðsla nær því gengdarlaus. Honum fanst þekkingin ekkert meiri eftir margra ára lýðskólanám, en unglingar hefðu fengið hér á Íslandi, ef þeim hefði verið komið nokkra mánuði til prestsins til þess að fá tilsögn.

Tveim mönnum kyntist eg mest í sveitinni, öðrum en Stephani. Annar var sviramann, *Jón Sveinsson* úr Reykjavík, víst einhver einaðasti Íslendingurinn þar. Í samræðunum við hann bar eg kinnroða fyrir það hve miklu minna eg kunni en hann af íslenzkum ljóðum. Einkum var hann stál sleginn í ljóðmælum St. G. St. og Þorsteins Erlingssonar. Þau rifjuðust upp fyrir honum með kynja-hraða,

þegar eitthvað bar á góma, sem skylt var efninu í ljóðunum. Og hann flétti þau inn í samræðuna með þeim fimleik, sem eg öfundaði hann af.

Hinn var *Jóhann Björnsson* póstafgreiðslumaður á Tindstól. Við höfðum þekst í æsku. Faðir hans bjó á Grímsstöðum í Skagafjarðardölum og var bláfátækur barnamaður. Jóhann fór úr foreldrahúsum innan fermingaraldurs, til þess að vinna fyrir sér, og var smali í Bjarnastaðahlíð, þegar eg man eftir honum. Eg komst ekki undan því að gista hjá honum, enda var mér það ljúft. Hann býr góðu búi. Og húsakynnin eru veglegri en Jóhann mun hafa hugsað sér að til væru á nokkurum bóndabæ í veröldinni, þegar hann var í Bjarnastaðahlíð. Eg hafði mikla ánægju af því, hve mikið maðurinn fann til þess, að vel hefði rætzt úr högum sínum og lífið í raun og veru farið vel með sig. Og hafði hann samt í hann margan krappan komist.

Báðir höfðu þessir bændur mjög mikla ánægju af því að tala við mig

um framfaravonir Íslands. Jóni voru kynbætur búfjár hugleiknastar, einkum sauðfjár. Hann er mestur sauðabóndi þar í sveitinni. Og hann hafði með kynbótum látið sauðfé sitt þyngjast um helming. Hann vildi fá útlent kynbótafé til Íslands. Jóhann talaði mest um sáningu grastegunda. Eftir sinni reynslu hafði hann örugga trú á því, að grasmagnið hér á landi gæti orðið margfalt við það, sem það nú er, þar sem bezt lætur.

Stephán G. Stephánsson hafði boðað fyrir mig tvær samkomur, meðan eg stæði við í sveitinni. Þær voru svo fjölsóttar, að mig furðað á. Menn komu langar leiðir, hvort kvöldið eftir annað og fyltu samkomuhúsið. Sjálfsagt hefi eg notið þar mjög fundarboðanda. Á undan fyrri samkomunni hélt prestur bygðarinnar, síra *Pétur Hjálmsson*, ræðu. En St. G. St. í samkomulok síðara kvöldið. Báðum mæltust þeim einkar vel. Eg fór úr sveitinni með hlýjum þakklætishug.

## XIX

Úr nýlendunni hélt ég til Reed Deer aftur, og þaðan með járnbrautinni norður til Edmonton. Sá bær hefir þotið upp á síðustu árum og þar eru nú um 20 þúsund manns. Sá Íslendingurinn, sem mest ber á þar, heitir *Jón Jónsson*, frá Kolgröf í Skagafirði.

Kona hans er fermingarsystir mín, *Sigurbjörg Benediktsdóttir*, frá Eiðsstöðum í Blöndudal, en síðast á Tunguhálsi í Skagafirði. Okkur þótti gaman að rifja upp endurminningarnar — ekki síst frá þeim tíma, er við höfðum setið úti í kirkju í Goðdölum, hvort öðru yfir. Báða dagana á undan fermingunni, og létum þess á milli uppi hugmyndir okkar um heiminn og lífið, sem framundan okkur var. Nú var ég gestur hennar vestur undir Klettafjöllum. Og hún var með fullt húsið af fullorðnum sonum og dætrum. Mér fanst hálf í hvoru að ég væri aftur kominn á fermingaraldurinn, þegar ég var að tala við hana, og fyrir því alt svo

kyrlega skemtilegt, meðan eg dvaldist á hinu yndislega heimili hennar.

Maður hennar er einn af hinum miklu atorkumönnum Vestur Íslendinga. Hans hefir verið mörg, mörg ár í Vesturheimi. En mér skildist svo, sem ekki hefði velgengnin fallið honum í skaut fyr en í Edmonton. Hann hafði komið þangað fyrir 5 árum með 700 dollara. Bærinn var í hröðum vexti. Hann keypti lóðir, reisti á þeim hús og seldi þau jafnóðum, eftir því sem unt var. Hann sagði mér, að ætti hann að fara þaðan þá, og hefði þriggja mánaða tíma til þess að koma af sér fasteignum sínum, mundi hann að minsta kosti halda af stað þaðan með 40 þúsund dollara.

Ský var yfir heimilinu, meðan eg stóð þar við. Faðir húsbóndans, *Jón Pétursson* frá Kolgröf, lá hættulega veikur og búist við andláti hans. Ekki hefi eg samt frétt lát hans. Eg hafði heyrt því viðbrugðið, af mönnum sem þektu hann, hvað mikið hann hugsaði um Ísland, og hvað væri honum þætt-

um það. Hann hafði fulla rænu og vissi af ferð minni, en var svo veikur, að ekki var talið óhætt, að eg heimsækti hann. En orð hafði hann haft á því, hvað sér þætti mikið fyrir því, að eiga ekki kost á að tala við mig um Ísland.

Frá Edmonton hélt eg austur eftir, mikið norðar en eg hafði farið a vesturleiðinni. Eg varð að fara fram hjá nýrri Íslendingabygðu, sem buist er við að verði með hinum öflugustu bygðum landa vorra í Vesturheimi. Hún er mikið fjærmi og land einkar frjótt, að sögn, og er kend við vatn, sem heitir Foam Lake. Fjöldi Íslendinga er þangað kominn, flest menn, sem fengist hafa við búskap áður og byrja þarna bæði með efnum og reynslu. Eg heyrði alla gera ráð fyrir því, að sú nýlenda mundi fljótt ná miklum þroska. En hún er svo mikil vfirferðar, að eg sá, að mér mundi ekki vinnast tími til þess.

Fyrsti áfangastaðurinn var í ofurlitlu kauptúni. Eg kom þangað kl. 3 um

nótt eftir nálægt 30 klukkustunda járnbrautarferð, og svaf það sem eftir var nætur í gistihúsi. Um morguninn hitti eg mann, sem komið hafði um 20 enskar mílur til þess að sækja mig, son *Gísla Egilssonar* frá Skarðsá, póstafgreiðslumanns við Lögbergs pósthús. Eg hélt samkomu um kvöldið í skólahúsi bygðarmanna, en gisti næstu nótt hjá *Jóhannesi Einarssyni*, gáfumanni miklum og stórbónda, Þingeying af ætt Bjarnar í Lundi.

Eg svaf þar einn í nýju húsi, sem Jóhannes hafði verið að reisa sér, og ætlaði að flytja sig inn í næstu daga. Það var 14 álnir á hvorn veg, auk forstofu, fullar tvær hæðir og hátt undir mænisþak á þriðja lofti. Á neðsta gólfi var bezta stofa og borðstofa, svefnherbergi, búr og eldhús og gangur meðfram stiga. Á öðru gólfi 5 svefnherbergi, gangur og stigi. Steyptur kjallari var undir öllu húsinu allur hólfaður sundur. Veggir sexfaldir, að meðtöldum tveim pappalögum. Frágangur allur var hinn prýðilegasti, vandaðri en hér gerist á hús-

um, að mér virtist, enda viður mikið betri. Þessu húsi höfðu tveir menn komið upp að öllu leyti þar á meðal smíðað allar hurðir og glugga á 51 degi. Og það hafði kostað 2000 dollara, um 7400 krónur. Eg hygg, að dagsverkin hefði orðið fleiri hér á landi, og verðið líka hærra.

Kvöldið eftir var fyrirlestrar samkoma í ofur-litlu kauptúni, sem heitir Churchbridge, og var ætluð Þingvallanýlendumönnum. Sú nýlenda liggur suður af Lögbergsnýlendunni. Í Churchbridge hefir um mörg, mörg ár rekið verzlun maður, sem heitir *Bjarni Westmann*, sonur Davíðs heitins, sem lengi var í Fornahvammi. Kona hans er *Ingibjörg Guðmundsdóttir* prests frá Arnarbæli. Við höfðum verið í sama húsi, þegar óvenjulega líkt stóð á um okkur. Hún misti eina barnið, sem hún átti þá, og fyrri manninn. Eg misti eina barnið, sem eg átti, og fyrri konuna. Þrjú af þessum mannslátum höfðu borið að höndum á 14 dögum, hið fjórða fáum vikum síðar. Okkur þótti

gaman að finnast og sjá, að nú vorum við bæði með glöðu bragði.

Svo var til stofnað, að þessi samkoman yrði síðust í þessari ferð. En hana sóttu margir menn sunnan úr Qu'Appelle-dal, höfðu komið um 26 enskar mílur. Og þeir sögðu mér að Íslendingar í sinni sveit kynnu því illa, að eg skyldi fara framhjá, án þess að gera vart við mig. Svo að eg slózt í för með þeim daginn eftir.

Eg hélt samkomur hjá þessum löndum mínum í tveimur skólahúsum. Mér var sagt, að á aðra samkomuna hefðu komið allir Íslendingar sem heima áttu í því skólahéraði, ungir og gamlir, hvert mannsbarn, og á hina samkomuna langflestir.

Eg gisti þar tvær nætur. Og að lokum flutti mig einn af hinum stórlega gestrisnu löndum mínum þar, *Jón Ísfjörð*, síðari hluta nætur og fyrra hluta dags langan veg á næstu járnbrautarstöð. Og að kvöldi þess dags komst eg til Winnipeg.

## XX

Síðasta langferðin frá Winnipeg til Íslendinga var til Duluth og Minnesota, og þaðan norður í Íslendingabygðirnar í Norður-Dakota og vestur í Argylebygð.

Sigfús Magnússon frá Grenjaðarstað hafði skrifað mér frá Duluth og samið við mig um að koma þangað. Hann mætti mér á járnbrautarstöðinni þar um miðjan morgun, og hafði orðið að fara langa leið til þess heiman að frá sér, því að hann á heima í útjaðri borgarinnar. Og vegalengdir eru þar ákaflega miklar. Borgin stendur með fram strönd Superiorvatnsins, og er ö.l reist að kalla má við vatnið.

Eg dvaldist um daginn í góðu yfirlæti á heimili Sigf. Magnússonar og konu hans, frú Guðrúnar, dóttur síra Benedikts Kristjánssonar frá Múla. Um kvöldið var fjölmenn samkoma í húsi þeirra til þess að hlýða á fyrirlestur minn. Húsakynni eru þar mikil og fögur.

Orð hefir mikið af því farið, að með Duluth Íslendingum hafi verið deilur miklar og harðar — út af smámunum samt, að því er mér skildist. En vel urðu þeir samtaka þetta kvöld, betur, var mér sagt, en nokkuru sinni áður um mörg ár. Þeir sóttu víst flestir þessa samkomu. Það var ekki annað en gamla sagan. Hvað sem Vestur-Íslendinga greinir á um, þá kemur samræmið tafarlaust fram, ef eitthvað er komið við strengi ættjarðarástarinnar. Ég var í þeirra augum nokkurs konar fulltrúi Íslands á þessu ferðalagi. Fyrir því var ekki annað en sjálfsagt að vinna að því af eindrægni, og bróðerni að sýna mér sem mesta góðvild.

Á eftir fyrirlestrinum buðu húsráðendur öllum gestunum veitingar. Við sátum fram á nótt og röbbuðum. Og um miðjan morgun hafði húsbóndinn komið mér á járnbrautarstöðina aftur. Þá lagði lestin af stað.

Nú var haldið suðvestur eftir Minnesotaríkinu þangað til tveim stundum fyrir miðaftan. Þá fór ég út úr lest-

inni í smábæ, sem heitir Marshall. Þar biðu mín tveir Íslendingar frá Minneota, *Gunnar Björnsson* ritstjóri blaðsins Minneota Mascot og *Runólfur Þorbergsson Fjeldsted* guðfræðingur, sem þá þjónaði söfnuðum síra Björns B. Jónssonar í fjarvist hans, en nú er orðinn prestur í Foam Lake nýlendunni. Báðir eru þeir ungir menn. Gunnar Björnsson er Austfirðingur að ætt, en hefir víst komið til Vesturheims á barnsaldri. Hann talar íslenzku eins og við hér heima, en vill ekki skrifa á öðru máli en ensku. Blað hans þykir bera af öðrum smábæjablöðum í Minnesota. Og sagt var mér það, að ef hann hefði getað tekið móti kosningu, þá væri hann orðinn þingmaður. Hann hafði boðað komu mína í blaði sínu af svo mikilli góðvild, að eg fekk tilmæli um að flytja enskumælandi tilheyrendum þar erindi. Eg var ekki við því búinn, enda ekki tími til þess.

Þeir félagar fluttu mig í vagni til Minneota, eitthvað 12 enskar mílur. Þar var mér búin gisting á einhverju

fegursta heimili, sem nokkur Íslending ur á, austan hafs og vestan, hjá *Bjarna Jones* kaupmanni, Vopnfirðingi.

Um kveldið hélt eg samkomu í Minneota. Daginn eftir sótti mig út í svo nefnda Austurbygð *S. M. S. Askdal*, Austfirðingur, einn af hinum miklu áhugamönnum Vestur-Íslendinga, þar á meðal, og ekki hvað sízt, um íslandsmál, gaftmaður, sem mér var unun að kynnast. Að fyrirlestri loknum þar í bygðinni, var eg aftur fluttur til Minneota og hélt þar aðra samkomu um kvöldið. Daginn eftir fór eg í vagni eitthvað 14 enskar mílur vestur á bóginn, talaði þar á samkomu, og hélt aftur til Minneota samdægurs. Þá var eg orðinn svo örþreyttur af ferðalögum og samkomum, að eg varð að fara rakleiðis í rúmið úr vagninum.

Hjá Jones kaupmanni var lagt alt kapp á að gera gistinguna sem ánægjulegasta og veglegasta. Meðal annars höfðu þau hjónin fjölment boð inni þetta kvöld til þess að gera bæjarmönnum kost á að kveðja mig, því

að eg átti að leggja upp að morgni. Húsfreyja hafði séð hvað mér leið, þegar eg lagðist út af. Og svo mikil var nærgætnin, að eg var ekki vakinn fyr en gestirnir ætluðu að fara að kveðja. Af því geta menn nokkuð ráðið, hvernig gestrisninni þar var hattað og að ekki var hlaupið að því að hugsa sér, hvernig ætti að fara betur með mig.

Síra *Björn B. Jónsson*, núverandi forseti kirkjufélagsins, er prestur Íslendinga í Minneotanylendunni. Hann var ekki heima, þegar eg kom þangað, var í fjársöfnunarferð fyrir skólamál kirkjufélagsins. En ferðina hafði eg farið þangað suður eftir hans áeggjan, enda hann búið undir viðtökurnar. Og eg hitti hann síðar í ferðinni, norður á Gardar, í heimboði hjá síra *Kristni Ólafssyni* og víðar, heyrði hann meðal annars flytja erindi, af mikilli mælsku, um skólamál kirkjufélagsins. Ekki grunaði mig, þegar eg var að hlusta á þá ræðu, að næsta kirkjuþing mundi fara svo hrapallega

hörðum höndum um það mál og koma því fyrir kattarnef.

Þessir ferðapistlar eru orðnir lengri en eg hafði ætlað mér í fyrstu, ef til vill lengri en lesendur Norðurlands hefðu á kosið. Fyrir því verð eg að fara að fella af. Ferð minni norður um Dakota og um Argylenýlenduna verð eg að sleppa.

XXI.

Þegar eg kom til Winnipeg úr þessari ferð, var lítið annað eftir en kveðjur og veizlur. Tveir fulltrúar Lögbergsstjórnarinnar tóku á móti mér, þegar eg kom þangað á járnbrautarstöðina og fluttu mig á bifreið heim til síra Friðriks Bergmanns, svo að eg gæti haft fataskifti. Um kvöldið átti eg að sitja samkvæmi, sem útgefendur blaðsins héldu mér. Að þeirri veizlu hefi eg áður vikið.

Eitt kvöldið var eg í haustveizlu Tjaldbúðarsafnaðaðar. Samkvæmið var að öllu hið fegursta og veglegasta. En

mest fanst mér um ræðu, sem *Hjálmar Eiríksson Bergmann* lögfræðingur flutti þar. Hann var beðinn að þakka konunni safnaðarins fyrir matinn. Mér skildist svo, sem hann hefði ekki verið um það beðinn fyr en nokkurum andartökum áður en hann bað sér hljóðs. Ræðan var stutt og efnið var lítið, ekki annað en tvær skrítnar smásögur. En þær sagði ræðumaður, í dúnmjúkum róm, af svo einkennilegri orðfæðar-snild, að mér varð heitt af gleð. Mér duldist ekki, að nú var komið inn í heim listarinnar.

Og loks er að geta skilnaðar-samkvæmisins, sem mér var haldið í kirkju Tjaldbúðarsafnaðar. Eg hafði enga hugmynd um, að neitt ætti að gera annað en segja einhver góðvildarorð við mig að skilnaði. En mér var færð stórkostleg peningagjöf. Og mér var flutt ávarp, sem fjöldi manna hafði skrifað undir. Í gjöfinni og ávarpinu höfðu átt þátt menn úr öllum flokkum Vestur-Íslendinga. Og vitanlegt var um marga þeirra, að þeir voru

mér mjög ósammála um sumt af því, sem þeir bera ríkast fyrir brjósti. Vinur minn W. H. Paulson víkur að því í deilugrein, sem hann hefir nýlega til mín ritað í Lögbergi, að skoðanabræður hans hafi áreiðanlega stundum sýnt umburðarlyndi. Eg hefi ekki blaðið við hendina, og man ekki orðin. Ef eg ætlaði að neita því, yrði eg að gleyma þessu kvöldi í Tjaldbúðinni. Og auðvitað get eg því aldrei gleymt. Margar ræður voru fluttar og allar góðar. En af þeim öllum bar ræða, sem einn alþýðumaður þar hélt, *Stefán Thorson*. Það var afburðaræða, bæði að hugsanamergð og andríki. Mér var þá sem oftar í þessari ferð ljóst, að eg væri elegastur ræðumaðurinn. Eg reyndi að bera í bætifláka fyrir mér með því að þreytan og ónytjungsháttur urinn voru svo mikil að huganum hætti við að snúast mest um það kvöld eftir kvöld, hvílíkur fögnuður það yrði að mega komast í rúmið. En mér gat ekki dulist það, að ræðusnúðin er að komast á miklu hærra

stig með Vestur-Íslendingum en okkur hér heima. Eg kvaddi síra Friðrik og konu hans síðast allra manna á járnbrautarstöð Kyrrahafsbrautarfélagsins um miðnætti 4. nóv. Mér varð ekki svefnsamt í svefnvagninum, þó að mjúkt væri rúmið. Hugurinn var fullur af mörgu, en mest af þakklæti. Eg hafði aldrei á æfinni orðið var jafn víðtækrar góðvildar. Auk alls annars hafði mér verið boðið að setjast að með vinum mínum vestra, og mér voru ætluð betri efna-kjör en eg á von á það sem eftir er æfinnar. En íslenzku böndin höfðu reynst of sterk. Og inn í endurminningarnar ólst nú sá fögnuður að vera kominn á leiðina heim.

Áður en eg lýk máli mínu um Canadaferðina og vík nokkurum orðum að dvöl minni í Lundúnum, ætla eg að eins að minnast á stjórnir Canada-járnbrautanna og Allanlínunnar. Þeim var sagt þegar eg kom til Winnipeg, að eg væri íslenzkur rithöfundur, sem kominn væri vestur snöggva ferð til

þess að heimsækja Vestur-Íslendinga. Járnbrautarfélögin snerust svo við þeirri fregn, að þau veittu mér ókeypis far á Canada-brautunum upp frá því. Og Allanlínan flutti mig ókeypis á fyrsta farrými austur yfir hafið. Svo mikil var gestrisnin þar, að þó að mér hefði verið vísað í stórt svefnherbergi, sem mér var einum ætlað — á bezta skipi félagsins — þá var eg fluttur úr því á fyrsta sólarhringnum, af því að betur mundi fara um mig á öðrum stað í skipinu. Vitanlega var það gert í sæmdar og greiðaskyni við Vestur-Íslendinga að fara þannig með gest þeirra.

Af því má nokkuð marka, hverjum augum litið er á þá sjálfa.

## XXII.

Eg kom til Lundúna laugardaginn 16. nóv. um hádegisbilið.

Eg hafði átt bréfaviðskifti nokkur við Mr. Stead, ritstjóra tímaritsins *Review of Reviews*. Hann var sá maður-

inn, sem eg gat helzt snúið mér til í Lundúnum. Og eg hafði skrifað honum frá Winnipeg, sagt honum, hvenær eg væri væntanlegur og að erindið til Lundúna væri aðallega það að kynnast þar dularfullum fyrirbrigðum. Eg bað hann að vera við því búinn að leiðbeina mér í því efni, eftir því sem hann gæti.

Daginn, sem eg kom, gat eg ekkert að hafst annað en koma mér fyrir í gistihúsi, kynna mér uppdrátt af Lundúnum, svo að eg gæti ratað um eitthvað af veraldar innar mestu borg, og ganga um göturnar. Skrifstofum er lokað í Lundúnum síðdegis á laugardögum, svo að þá gat eg hvorki fundið Mr. Stead né ritstjóra hins ágæta spíritistablaðs *Light*, sem eg ætlaði mér að sjálfsögðu að finna.

Eg var svo heppinn, að gistihúsið, sem mér hafði verið vísað á, er skamt frá kirkju Congregationalista *City Temple*. Þar er prestur R. J. Campbell, sem nú þykir einna mestur prédikari á Englandi. Eg hafði nýlega lesið

bók hans um *nýju guðfræðina,* sem N. Kbl. hefir að nokkuru frætt menn um. Og um enga tilraun, sem eg hafði séð, til þess að samþýða trúarbrögðin hugsanalífi nútíðarmanna, hafði mér fundist meira vert en um þá, sem gerð er í þeirri bók. Eg fór í kirkju til hans um hádegið og hryn forföll hefði eg hlotið að fá, ef eg hefð ekki farið að hlusta á hann aftur um kvöldið. Vitanlega voru það ekki ræðurnar einar, sem vöktu þar unað. Organið var afar-hljómmikið, í söngflokknum sæg-ur manna og mikill söngur um alla kirkjuna. Og svo var þessi óviðjafnanlega kyrð undir ræðunni, sem aftan verður, þegar þúsundir manna hlusta hugfangnar. Sú kyrð út af fyrir sig er yndisleg. Og hún er alveg serstaks eðlis. Öll önnur kyrð er hvíld að meira eða minna leyti. Þessi kyrð er starf. Mér finst eins og eg finni hugi mannanna þenja sig út af alefli til þess að geta sogað í sig sem mest af andríki.

Ræðumaður er á fimtugsaldri, og

nær því alhvítur fyrir hærum. Hann er fölleitur mjög. Augun eru grá og horfa nokkuð hvast út um kirkjuna, þegar hann kemur að ræðustólnum. Altari er ekkert, né altarisguðsþjónusta. Ennið er mjög mikið, og meira ber á því fyrir þá sök, að niðurandlitið er fremur rýrt og skegglaust. Hárið er mikið og lyftist upp frá enninu. Maðurinn verður eins og allur að sál, þegar hann fer að tala.

Hann bindur sig ekki við neinar gamlar kreddur. Hann trúir engu fyrir þá sök eina, að aðrir hafa trúað því. Árangur biblíurannsóknanna notar hann óspart. Hann virðist hafa djörfung til þess að segja alt, sem hann hyggur rétt vera, hvort sem menn kunna því betur eða ver. Og hann segir margt, sem eðlilegt er að menn furði sig á, ekki síður um það, hve lítt kristinn hinn svo nefndi kristni heimur sé, en um hitt, hve fráleitar margar kreddur hins kristna heims séu.

En ekki vantar hann tilheyrendur. Kirkjan er ein af hinum miklu kirk-

um Lundúnaborgar Hún er alt af full. Um kvöldið kom eg að henni ½ stund áður en taka átti til. Eða rettara sagt, eg kom þá svo nærri henni, sem eg gat komist. Lögreglumenn skipuðu mönnum þar í raðir á gangstéttinni, þeim er inn í kirkjuna ætluðu. Og þær raðir voru orðnar langar, þegar eg kom. En mikið bættist samt við þá hálfa stund, sem eftir var. Fylkingarnar teygðu sig fram hjá guðshúsi ríkiskirkjunnar, sem stendur rétt hjá City Temple. Biskupakirkjan stóð opin og ljósumprýdd. En engan sá eg eiga leið þangað inn.

Campbell predikar í kirkju sinni þrisvar í viku, tvisvar á sunnudögum og einu sinni á fimtudögum. Ræður hans eru flestar eða allar prentaðar jafnóðum og þykja snildarverk. Hann hefir stóran söfnuð, og verður auðvitað að sinna honum mikið utan kirkju. Hann ritar bækur, sem lesnar eru um allan heim. Og hann er alt af að flytja ræður utan kirkju sinnar, ekki að eins í Lundúnum, heldur og hér og þar

úti um England. Hvernig vinst honum tími til þess alls? Starfsþrekið hlýtur að vera afar mikið. Og heilinn hlýtur að vinna með geysi-hraða.

Og auðvitað er það örvandi að sjá, að starfið ber mikinn árangur, hvernig sem á það er litið. Öldur þeirrar hreyfingar sem Campbell er að vekja fara um allan heim, og þúsundir manna verða vitrari, skilningsmeiri á vafamál mannsandans, og sjálfsagt sannkristnari en áður. Langi manninn til þess að hafa með höndum »afl þeirra hluta sem gera skal«, þá ætti ekki að vera tilfinnanlegur hörgull á þeim gæðum. Mér var sagt, að nokkurum mánuðum eftir útkomu bókarinnar um nýju guðfræðina hefði Campbell verið búinn að fá fyrir hana 15 þúsund pund sterling. En mest hlýtur sú ánægjan að vera að finna áhrif starfsins og baráttunnar á sjálfan sig, finna til meðvitundarinnar um það, að hafa ekki orðið mannanna þræll, ekki glatað sál sinni í kviksyndi erfikenninganna, venjunnar, hugsunarleysisins og heimsk-

unnar, en staðið óskelfdur í ópunum og köllunum, sem að hafa dunið, og finna dag frá degi eflast og styrkjast sannfæringuna um það, að maður sé á réttri leið. Ætli það sé ekki magnmesta ánægjan og sannasta gæfan, sem mönnunum hlotnast í þessum heimi?

Eg get ekki stilt mig um að segja frá ofurlitlu atviki, sem gerðist, þegar eg kom út úr kirkjunni um kvöldið. Á sléttunni fyrir framan dyrnar var gamall maður að snúast og skima í allar áttir. Auðsjáanlega var hann að svipast um eftir einhverjum, sem hann þekti. En hann sá engan, og náði í mig út úr vandræðum. Honum var synilega svo mikið niðri fyrir, að hann *varð* að létta á sér við einhvern.

»Er hann ekki óviðjafnanlegur?« sagði hann. »Er hann ekki blátt áfram dýrlegur? Er það ekki ómetanleg guðs gjöf að mega koma hingað á hverju sunnudagskvöldi og hlusta á annað eins og þetta?«

Eg samsinti því. Og þegar eg hafði kvatt karlinn, fór eg að hugsa um,

hvílíkan undramátt trúarbrögðin enn mundu hafa í veröldinni, ef þeir, sem málefni þeirra flytja, hefðu vitsmuni og þekkingu og lag á að komast að hugum nútíðarmanna með hugsana-auð þeirra og gróðrarmagn tilfinninganna. Og líka fór eg að hugsa um, hve máttvana þau sýnilega væru að öllum jafnað og hve langt þau séu áreiðlega komin burt frá honum, sem kristnin kennir sig við.

En sjálfsagt þætti lesendum Norðurlands nokkuð langur krókurinn á leiðinni, ef þeir ættu að fara með mér út á þær götur.

XXIII.

Morguninn eftir fann eg Mr. Stead á skrifstofu Review of Reviews. Hann tók mér einkar ástúðlega, mintist fyrst á fyrstu íslenzku útgáfu Júlíu-bréfanna, og sveigði talið því næst að rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Hann spurði mig, hver skoðana árangur hefði orð

ið mínum hug af kynnum mínum af málinu.

Eg sagði sem var, að eg gæti ekki gert mér neina skynsamlega grein málsins aðra en þá að nokkuð af fyrirbrigðunum stafaði þaðan, sem þau segðust stafa. En að eg eitaðist við í öllum efnum að loka ekki huganum fyrir neinum nýjum skyringum.

Hann spurði mig, hvað fyrir mig hefði borið. Eg sagði honum nokkurt ágrip af því. Og honum þótti mikils um vert.

Þá bar sumt á góma úr viðkynningu sjálfs hans af málinu. Meðal annars sagði hann mér, að hann hefði fengið ljósmynd af föður sínum framliðnum með þeim atvikum að engin svik hefðu verið hugsanleg. Hann sýndi mér myndina. Hún var svo skýr, að ekki varð um villst. Hann mintist líka á Eldred þann, sem mest umtalað varð um hér og þar um heiminn ... líka hér á Íslandi ... þegar útbúnaður fanst í stól hans, stól, sem vissa var um, að hann hafði aldrei notað. Einn af vin-

um Steads hafði til Eldreds farið með þeim hug, að ekki væri annað til neinna mála, en að brögð væru í tafli. Stead sagði, að hann væri alveg óvenju ega athugull maður og manna ólík egastur til þess að láta eika á sig. Hann kom aftur frá Eldred alsannfærður um, að hann hefði ta að við framl ðinn son sinn. Hann sá hann holdgaðan Og hann fekk að fara með honum inn í klefa og tala við hann góða stund um það, er þeim hafði farið í milli áður en sonurinn andaðist. Eldred hafði engin kynni haft af þeim feðgum.

Mr. Stead hafði skrifað upp nöfn og heimili nokkurra manna, sem hann taldi sjálfsagt að ég fyndi, til þess að kynnast dularfullum fyrirbrigðum í Lundúnum Einn þeirra manna var honum sérstaklega hugleikið að ég fyndi, gamlan mann Boursnell að nafni sem náð hefur flestum ljósmyndum af ósýnilegum gestum, og þar á meðal af föður hans. En hann sagði, að ekki væri að því hlaupið. Boursnell

væri hættur öllum ljósmyndunum sem atvinnu. Hann væri orðinn svo langþreyttur á öllum rengingunum og og svika brigzlunum, sem hann hefði orðið fyrir alsaklaus, að venjulega ræki hann þá út, sem til hans kæmu í þeim erindum, sem eg mundi koma. Skapið væri orðið óvenjulega stirt. Stead bauðst til þess að skrifa bréf með mér, og eins og nærri má geta, þá eg það með þökkum. Hann kvaðst ekkert geta um það sagt, hvort mér yrði bréfið að liði. »Þér getið hitt svo á hann, að engu tauti sé við hann komandi. En líka getur verið, að honum lítist svo á yður, að hann verði ljúfur í viðmóti.« En ekki mætti eg með nokkuru móti fara svo úr Lundúnum, að eg fyndi hann ekki.

Annars sagði hann mér, að ekki væri um jafn-auðugan garð að gresja í Lundúnum þá, eins og stundum áður. Manngerfingar gerðust nú hjá einum miðli að eins, þeirra er ókunnugum mönnum væri unt að finna. Og jafnframt sagði hann mér, eins og al-

ir segja, sem því máli eru kunnugir úti um heiminn, að stórmerkileg fyrirbrigði gerist hjer og þar í heimahúsum manna, en að afar dult se með þau farið, af því að menn vilja ekki æsa gegn sér róg og svívirðingar þeirra manna, sem ekkert vit hafa á málinu, en telji sig færa um að dæma um það. Eg skildi þá hlið málsins sæmilega vel.

Eg hef aldrei séð mér ókunnugan mann, sem mér hefir litist betur á en Mr. Stead. Hann er óvenjulega fríður sýnum. Myndir þær, er eg hafði séð af honum hér heima, höfðu gefið mér mjög ranga hugmynd um hann. Meira ber samt á því, hve karlmannlegur hann er og frjálsmannlegur en á fríðleikanum. En mest ber á því, hve svipurinn er hreinn og bjartur. Þeirra íslenzkra manna, sem eg þekki, er hann helzt í mannglíki við síra Valdemar Briem. Andlitið á Englendingnum er samt tæpast jafngóðlegt, en aftur er það einbeittlegra.

Og á einbeitninni hefir maðurinn

líka þurft að halda í sinni miklu og ósleitilegu baráttu fyrir sannleikanum og réttlætinu í veröldinni.

## XXIV

Mér þykir sennilegt, að sumum lesendum Norðurlands þyki ekki ófróðlegt, að eg minnist stuttlega á þá miðla, sem eg kom til. Þeir eru allir þjóðkunnir á Englandi með þeim mönnum, sem áhuga hafa á sálarrannsóknum, og eg valdi þá eftir tilvísun Mr Steads og ritstjóra blaðsins *Light*.

Eg gat ekki fengið að tala við suma þeirra með öðrum hætti en þeim að semja um tiltekna stund fyrir fram með símtali, eða bréflega. Vegalengdir voru miklar til þeirra flestra. Þeir áttu heima úti í undirborgum þeim, sem Lundúnir hafa smátt og smátt sogað í sig. Og leiðin lá til þeirra flestra eftir járnbrautinni niðri í jörðinni. Það ferðalag fanst mér í fyrstu óviðkunnanlegt en eg vandist því. Farþegar eru fluttir á lyftivélum langt, langt

niður í djúp jarðarinnar. Hvarvetna blasa við auglýsingar um að vara sig á vasaþjófum Járnbrautarstöðvarnar niðri í jörðunni eru lýstar rafljósum. Að öðru leyti eru göngin koldimm, en ljós í vögnunum.

Fyrsti miðillinn, sem eg kom til, auglýsir sig með dulnafninu *Clairbelle*. Hún er ung kona, björt ásýndum og fremur lagleg. Hún spyr, hvort eg vilji eiga tal við sig í sambandsástandi (trance) eða vakandi. Eg kýs það ástand, sem hún haldi sjálf, að beztur árangur verði af. Hún hyggur sambandsástand betra, ef eg verði ekki hræddur við hina ósýnilegu gesti (»the spirit people«). Eg segist vera sæmilega hugrakkur í þeim efnum.

Hún sezt niður við borðið, sem eg sit við, og les faðirvor. Þá sofnar hún bráðlega. Ljósið logaði glatt. Andlitið harðnaði og drættir og kippir komu í handlegginn. Því næst fór hún að tala með breyttum róm, á mjög bjagaðri ensku. Eg þóttist heyra, að þetta ætti að vera svertingjastúlka, og spurði, hvort

svo væri ekki. Því var játað, og gesturinn nefndi sig *Sunbeam* (Sólargeisla).

Hún talar um alls konar framliðið fólk, sem viðstatt sé. Eg kannast ekkert við það. Meðal annars segir hún, að þar sé systir mín, sem andast hafi ungbarn. Mig rankar ekkert við henni í svipinn, og ekki fyr en eg er kominn út. Þá minnist eg hálfsystur, sem eg hafði aldrei séð og dáið hafði á fyrsta árinu.

Sunbeam spyr mig, hvort eg hafi ekki misst dreng. Eg svara engu. Jú, eg *hafi* misst dreng. Hún lýsir honum og lýsingin er rétt það sem hún nær, nema hvað henni synist hann vera nokkuru eldri en hann var, þegar hann dézt. Hún heldur að hann hafi dáið úr tæringu, og að hann muni hafa verið við bóknám, þegar hann hafi lagst banaleguna.

Þetta var hið helzta, sem nokkurt mark var á takandi. Flest annað, sem hún sagði, virtist mér annaðhvort með öllu rangt, eða ekki rétt nema að nokkru leyti.

Daginn eftir var eg á tilraunafundi á skrifstofu blaðsins *Light*. Miðillinn, írskur maður, Mr. *Vango*, hafði verið ráðinn til nokkurra funda af spiritista-sambandi Lundúna (London Spiritualist Alliance). Hann átti að segja, hvað hann sæi umhverfis þá menn, sem viðstaddir voru.

Um 40 manns voru þar samankomnir, karlar og konur. Fólkið var alt vel búið, konurnar sumar í silkikjólum. Við hlið mér sat ungur prestur.

Vangó fór upp á ofurlítinn pall, andspænis gestunum. Fundurinn var haldinn um miðjan dag, og sólin skein í augun á Vangó. Hann bað um, að blæja væri dregin fyrir gluggann, svo að sólin truflaði sig ekki. Það var gert, en albjart var samt inni í salnum.

Vangó fór þá að lýsa þeim ósýnilegu gestum, sem fyrir hann báru. Mér virtist sem sumir *vildu* þekkja þá, sem lýst var, en aðrir vildu það *ekki*. Samt fór svo um flesta, sem hann átti tal við, að þeir könnuðust við lýsing

ar hans. Svo var til dæmis að taka um eina konu Vangó lýsti ungri stúlku hja henni. Konan sagðist ekkert kannast við hana, og gaf í skyn, að þetta mundi vera einhver vitteysa.

»Hún segist heita *Mary*,« sagði Vangó. — Þá brá konunni. »Eg veit þá, við hverja þér eigið,« sagði hún.

Þetta samta við Vangó virtist valda einum roskinum manni meiri gleði en öllum, sem viðstaddir voru. »Þér eruð ekkjumaður,« sagði Vangó.

Satt er það,« sagði maðurinn, »en hvað er til marks um það?« »Konan yðar stendur hjá yður,« sagði Vangó. »Hvernig er hún í hátt?« sagði maðurinn. Vangó lýsti henni, og ekkillinn kannaðist við, að lýsingin væri rétt. »Bíðið þér ofurlítið við,« sagði Vangó. Hún er eitthvað að segja. Hún segir, að þér hafið týnt einhverju sem yður hafi þótt mikið fyrir um.«

»Rétt er það,« segir ekkillinn og fór syrtuega heldur en ekki að leggja við hlustirnar. »Hún segir, að þér hafið mist hring Er það rétt?« »Já

það er rétt Og mér þótti mikið fyrir því« — Jæja, hún biður mig að skila til yðar að þetta geri ekkert til, og að þér skuluð ekki vera að setja þetta fyrir yður« — Eg veit, að eg gleymi seint athygli og fagnaðarsvipnum sem kom á andlitið á manninum.

Vangó lýsti þeim, sem hann sá, hjá eitthvað 30 manns. Presturinn, sem hjá mér sat var í þeirra tölu, og kannaðist við lýsinguna En eg var einn þeirra, sem engar lýsingar fengu. Fundurinn hafði því ekkert sönnunargildi fyrir *mig* Eg hafði auðvitað enga tryggingu þess, að Vangó hefði ekki fengið einhverja vitneskju um framliðna vini og vandamenn fundarmanna En fremur ólíklegt er það samt. Aðgang að fundinum áttu félagar í Spiritista-sambandi Lundúna — og þeir eru margir og úti um alla borgina og auk þess i orði kveðnu þeir einir, sem félagsmenn tækju með sér En mér var sagt í skrifstofu blaðsins Light, að *allir* væru velkomnir, sem greiddu inngöngueyri (2 shillings),

og inngöngu fékk eg alveg einn míns liðs. Svo að Vango gat ekki vitað um alla sem á fundinum yrði. Hitt er auðvitað ósannað mál, hvort hann hafi þekt þessa 30 — eða þar um bil — sem hann átti orðastað við. Getandi er þess í þessu sambandi, að hann tók það fram um eina konuna sem, hann talaði við, að *hann* þekti hana, og að frásögn hans um framliðinn mann hennar, sem hann sagði að stæði hjá henni, hefði ekki neitt sönnunargildi.

Eftir tvo tíma var Vango sýnilega þreyttur, og fundarstjóri, varaforsetinn í Spíritista-sambandi Lundúna, sleit þá fundinum.

Næst skal og minnast á konu, sem heitir Miss *Humphreys*. Mér hafði verið sagt, að hún væri af ýmsum talin beztur kristallarýnir í Lundúnum, og eg heimsótti hana. Hún er á að gizka um þrítugt, dálítið ankannaleg í fasi, breiðleit, fremur ófríð, en afburða góðleg kona. Hún fær mér kristall og segir mér að halda nokkuð fast utan um

hann. Segist fyrst ætla að lýsa því, sem kallað er »aura« — einhverskonar útstreymi frá mönnum, sem sumir skygnir menn eiga að sjá. Á litnum á þessu útstreymi á að mega sjá lundarerni manna yfirleitt, og eins þær geðshræringar, sem ráða mestu það og það skiftið.

Eg hélt stundarkorn utan um kristallinn og hún horfði á mig. Hún segir að hvað sem hún segi mér, skuli eg ekki fást um, að hún viti það, því að eftir á viti hún ekkert af því. Ekki sá eg samt, að hún færi í neitt leiðsluástand. Hún tekur að lýsa því sem hún sér umhverfis mig (»aurunni«) og draga af því ályktanir um lundareinkenni mín, og eg gat ekki betur séð en að það væri nærri lag. Sérstaklega varar hún mig við því, sem eg hygg sjálfur að viðsjárverðast sé í lundarfari mínu. Því næst fer hún að horfa í kristallinn, og segist sjá þar það sama, sem hún sjái utan um mig.

Ýmislegt segir hún mér fleira um sjálfan mig. Sumt er áreiðanlega rétt,

sumt get eg ekki sagt um. Meðal annars segir hún mér, að eg sé að semja bók, hafi þó ekki lokið við hana, en sé kominn vel á veg. Það var satt. Líka sagði hún það, sem sömuleiðis var rétt, að eg hefði misst son, sem eg hefði séð mikið eftir. Ýmislegt sagði hún fleira, sem var þess eðlis, að ekki á við, að eg hafi það hér eftir. Ekkert af því, sem hún sagði, gat eg vitað að væri rangt.

Hvað eða hvernig sem Miss Humphreys kann að vera, virtist hún ekki vera ágeng. Í lok samræðunnar spurði eg hana, hvað eg ætti að greiða henni. Hún varð mjög vandræðaleg á svipinn, og spurði, hvort mér hefði ekki verið sagt það. Eg kvað nei við, og hélt, að hún ætlaði að vera heimtufrek í meira lagi. Hún nefndi þá fjórðapartinn af því, sem hennar líkar eru vanir að setja upp. En hún sagði jafnframt, að ef nú kynni að standa svo á fyrir mér, að mér veitti eitthvað örðugt að greiða þetta, þá gerði það

ekkert til. Ekki vildi hún valda neinum manni óþægindi með gáfu sinni.

Hinn fjórði þessara skygnu manna, sem eg kom til, heitir *Ronald Brailey*. Hann hefir mikið orð á sér og sumar af sýnum hans eru mjög nafnkendar. Hann fekk hjá mér keðjuna frá úrinu mínu og hélt alt af utan um hana, meðan hann talaði við mig.

Um megin þorra þess, sem hann sagði mér, get eg ekki dæmt til né frá, þó að alt komi það mér við. En víst er um það, að hafi hann verið á réttri leið, þá hefir hann víst á nútíð og fortíð það sem hann hélt, að væri að gerast, hefir þá verið hörð. Svo að eg tók ekkert mark á því.

En rétt áður en við skildum gerðist hið merkilegasta í samræðunni. »Eg held, að eg sjái heim til yðar,« segir Brailey. »Hvað sjáið þér?« segi eg. »Eg sé timburhús. Umhverfið er litt ræktað og fjöllótt. Og eg sé stúlku inni í húsinu. Hún kemur yður eitthvað mikið við, og hún er mikið lasin.« Hann sagði, hvað stúlkan héti,

og hann sagði, hvað að henni gengi. Og hvorttveggja var rétt.

Loks heimsótti eg konu, sem heitir Miss *McCreadie*. Hún er roskin kona, hámentuð, hefir flutt ágæta fyrirlestra í Lundúnum og býður af sér bezta þokka. Aðsóknin að henni er mikil, og nærri lá, að mér gæfist ekki kostur á að tala við hana.

Hún lét mig setjast á stól fyrir framan sig, og sagðist ætla að vita, hvað hún kynni að sjá. Í fyrstu gekk alt tregt. Hún kvaðst verða vör við návist framliðinna manna, og eins að þeir vildu einhverjum skeytum koma. En það var eins og alt yrði að engu þvælu. Hún sagðist þá verða að fara í sambandsástand (trance), og reyna, hvort þá gengi ekki betur. Eftir nokkur andartök var hún sofnuð og farið að tala fram af vörum hennar með annarlegum málrómi.

Þá fór heldur en ekki að greiðast úr. Mér var sagt, alveg hiklaust, að eg væri tvíkvæntur, og að fyrri konan, ásamt tveim drengjum, sem eg hefði

eignast með henni, væri komin yfir í annað líf og væri þarna viðstödd. Síðari konan væri á lífi. Með henni hefði eg eignast 5 börn, og eitt þeirra, piltur, sem hefði verið við nám og dáið úr tæringu, væri líka viðstaddur. Mér voru færð frá þeim skilaboð, sem ef til vill mætti segja um, að út af fyrir sig hefðu þau ekki beint sönnunargildi, en voru að hinu leytinu mikið sennileg.

Eg átti ofurlitla stund tal við konuna, eftir að hún var vöknuð. Þá stóðum við upp og eg retti henni höndina til að kveðja hana. Meðan hún hélt í höndina á mér sagði hún:

»Eg sé inn í stofu heima hjá yður. Stofan er gagnólík þeim stofum, sem hér tíðkast!«

»Að hverju leyti?« sagði eg.

»Að því leyti einkum, að myndir eru með fram veggjunum og dót á þeim.«

Þetta var alveg rétt, um borðstofuna í húsi mínu.

»Eg sé konuna yðar inni í stofunni«, sagði Miss McCreadie.

»Getið þér ýst henni?« sagði eg.

Hún sagðist ekki sjá hana vel. En það sem lýsingin náði, var hún alveg rétt

Óhugsandi er, að nokkur þessara manna, sem eg kom til, hafi getað fengið um mig nokkura vitneskju, sem gæti verið þeim til leiðbeiningar Bradley og Miss Humphreys fengu ekkert um mig að vita, annað en það, sem þau gátu *séð* á mér, með venjulegum eða óvenjulegum hætti Cairnbelle fékk að vita, í talsíma, þegar eg var að biðja um viðtalið, að eg væri Íslendingur Miss McCreadie hafði eg orðið að skrifa á undan, til þess að ná fundi hennar, og hún fékk þá vitneskju um mig í bréfinu, að eg væri Íslendingur og héti það sem eg heiti. Annað ekki.

Eg held því fram, að eg hafi sagt alveg rétt frá. En að öðru leyti legg eg engan dóm á þessi fyrirbrigði. Af þeirri einföldu ástæðu, að eg veit ekki, hvernig á þeim stendur

Eg veit ekki hvernig því víkur við,

að Claribelle, Miss Humphreys og Miss McCreadie koma öll með sonarmissinn. Eg veit ekki, hvernig Ronald Brailey fer að koma með nafn og sjúkdómslýsing stúlku heima hjá mér. Eg veit ekki, hvernig Miss Humphreys fer að vita það, að eg sé með bók í sannungu. Eg veit ekki, hvernig Miss McCreadie fer að geta sagt nokkuð um mitt fólk, lifs og liðið. Og eg veit ekki, hvernig hún fer að sjá í Lundúnum þilurnar í stofunni hjá mér norðvestur í Reykjavík.

En hitt skilst mér að þetta, og svo ótal margt annað í sömu áttina, sem er að gerast um allan heim, sé þess vert, að það sé athugað. Og eg fæ ekki með neinu móti komið því inn í höfuðið á mér, að sú athugun eigi skylt við neina hjátrú eða heimsku. Ekki fæ eg heldur skilið, að hún standi í sambandi við neitt guðleysi. Einn af vinum mínum í Sameiningunni gefur í skyn þá ályktun, að þar sem eg hafi komið til konunnar í Edinborg, sem eg minnist á í upphafi

þessara p stla, þá treysti eg ekki guð. Mér finst slík ályktun jafnviturleg eins og hún er góðgjarn eg

En hvað sem því líður, og hvernig sem menn að öðru leyti líta á málið, þá eru kynstrin öll *sönnuð* af slíkum fyrirbrigðum sem þeim, er eg hefi nú minst á, og öðrum enn merkilegri.

Eg á einn miðilinn eftir, og segi frá honum í Norðurlandi næst.

## XXV

Um þær mundir, sem eg var í Lundúnum, var ekki unt að komast að manngerfinga-tilraunum (materialisationum) nema hjá einum gömlum manni, hann heitir *Husk*. Eg skrifaði honum og bað um að mega vera á fundi hjá honum. Hann gerði mér kost á því á tiltekinni stund

Eg átti afarlanga leið til hans frá gistihúsi mínu, og gat ekki komist það á neðanjarðarbrautum, og átti nokkurum sinnum að skifta um sporvagna, svo að eg var hálf smeikur um

að eg villtist. Ekki sízt vegna þess, að þetta var einn af dimmustu þokudögunum, sem nokkuru sinni koma í Lundúnum. Strætið var mjótt, sem eg hafðist við í. En ekki sáust samt húsahamrarnir hinumegin við það um hádegið. Kveikt er á öllum gatna og vagna ljósfærum. En geislarnir frá þeim ljósum komast ekkert út í þennan kalþykka sótsorta.

Eg hefði ekki tekið mér ferð á hendur um Lundúnaborg þann dag, aleinn og bráðókunnugur, ef eg hefði ekki átt brýnt erindi. En eg komst slysalaust alla leið.

Eg kom fyrstur gestanna. Ráðskona Husks, systurdóttir hans, ung stúlka, tók á móti mér vingjarnlega. Eg hafði sagt frá þess í bréfinu, að eg væri Íslendingur, og stúlkan talaði auðvitað um kuldann, sem sjálfsagt væri á Íslandi, og svo um þokuna í Lundúnum. Eftir dálitla stund komu þrjár rosknar konur. Þær voru sýnilega allar kunnugar þar og stöðugir gestir á fundunum.

En þessi þekti mig aftur af fundinum með Vango, og fór að spyrja mig, hvort eg hefði orðið var nokkurra dularfullra fyrirbrigða. Eg sagði konunum dálítið undan og ofan af því, sem fyrir mig hafði borið hér heima. Ein þeirra fer þá að segja mér frá manngerfingum, sem henni hafi birzt inni í svefnherbergi hennar um hánótt, og sjálf hafði hún verið miðill inn. Það leynir sér ekki, að konurnar eru mjög gagnteknar af málinu. Og samræðan er fjörug og skemtileg — þangað til okkur er vísað inn til miðilsins.

Hann er sjónlítill eða sjónlaus, slitinn og farinn. Fundurinn er í borðstofunni; borð er á miðju gólfi. Á borðinu er tafla, sem lýsingarefni er borið á, strengjahljóðfæri, sem nefnt er *banjo*, og stór og þung spiladós. Ofan á spiladósinni er jósastika með logandi kerti.

Við skipum okkur umhverfis borðið, eftir fyrirsögn miðilsins. Sjálfur sezt hann við annan endann, eg andspæn-

og honum við hinn endann, konurnar tvær við aðra borðhliðina, þriðja konan og frændkona Husks við hina. Við krækjum saman litlufingrunum uppi á borðinu, svo að hver er þannig tengdur báðum sínum sessunautum. Í þeim stellingum sitjum við allan fundinn, nema þegar við þreifum eftir hlutum á borðinu. Og því næst er ljósið slökt. Hjá Husk gerast öll fyrirbrigðin í myrkri.

Við röbbum ofurlitla stund saman. Eitthvað er sagt, sem okkur þykir gaman að, og við förum að hlægja. Husk biður þá um söng. Nokkur sálmvers eru sungin. Husk syngur með. Röddin er ellileg og ankannaleg og samþýðist illa kvenröddunum. Ekki líður langt, áður Husk hættir að syngja og er kominn í sambandsástand, eftir því sem mér er sagt.

Eftir ofurlitla stund er farið að tala uppi yfir borðinu, rétt hjá Husk, að því er mér heyrist, með ýmsum röddum, sem eru hver annari gagnólíkar. Þessar raddir eru jafn-skýrar og alment

gerist. Mér er sagt að þeir sem tala séu hinir ósýnilegu vinir Husks, og sögð nöfn n á þeim

Þá fer söngur að heyrast í loftinu, eins og hver söngmaður taki við af öðrum Sumar raddirnar eru góðar, og gersamlega ólíkar eru þær allar rödd miðilsins, eins og hún hafði verið, þegar hann söng sálmversin með konunum, áður en hann sofnaði

Þá heyrum við að kertastikan er tekin af spiladósinni og sett út í horn. Því næst er spiladósin líka tekin Og nú er farið að leika á banjoið á borðinu, rétt fyrir framan hendurnar á mér Fyrst eru leikin lög, sem konurnar kannast við Þá »Fögur er foldin« Þetta lag segjast þær ekki þekkja Það sé víst leikið mín vegna

Næst fara að sjást ljós yfir borðinu, sem mér var sagt, að heyrðu til þeim og þeim ósýnilegum gesti, sem þar væri á ferðinni. Meðal annars sést ljóskross sem sagt var að ti heyrði Newman kardínála. Rödd sem sögð var vera hans rödd, tónaði á latínu.

Nú er hljóðfærið tekið upp af borðinu, haldið uppi yfir því, og leikið á það jafnframt. Lýsingarefni helir verði borið á það, svo að alt af sést til þess í myrkrinu. Hljóðfærið tekur því næst að þeytast fram og aftur um herbergið uppi í loftinu, með afarmiklum hraða, og alt af er leikið á það. Stundum heyrðum við það lemjast við stofuloftið.

Næst komu manngervingarnar.

Þær birtast sem brjóstlíkön á borðinu, sem setið er við. Og þær halda sjálfar lýsingartöflunni, sem eg hef áður minst á, upp að andlitinu á sér, til þess að menn geti séð þau. Eg sé þau algreinilega, einkum sum þeirra. Andlitin eru ólík grímum, og augun eru vel lifand. Ekki fanst mér samt andlitin vera alveg eins og andlit lifandi manna. En óhægt yrði mér að gera grein þess, í hverju munurinn hafi verið fólginn.

Fjórir þeirra sem birtust, var mér sagt, að kæmu mín vegna.

1. Ungur maður, skegglaus.

2. Kvenmaður með hvítt traf um munninn.

3. Roskinn karlmaður með alskegg.

4. Roskinn karlmaður með skegg á efri vör og höku.

Hver þeirra birtist þrisvar til fjórum sinnum. Eg horfi á þau í hvert skifti líklegast fram undir eina mínútu. En eg þekti ekkert þeirra.

Eg ávarpaði þau öll. En ekkert þeirra svarar, nema stúlkan. Eg spyr hana á íslenzku, hvort hún þekki mig. Hún segir skýrt »ja« á íslenzku. Eg spyr hana, hvort hún sé kona ein, sem eg nefni, og hafði þekt. Hún hristir höfuðið. Eg spyr hana, hvort hún sé stúlka, sem eg hafði ekki þekt, en fullyrt hafði verið, að mikið hefði verið riðin við tilraunirnar hjá okkur í Reykjavík. Hún kinkar kolli.

Alt af er jafnframt talað við okkur í loftinu utan við miðilinn. Eg segi, að eg þekki ekki þá, sem til mín hafa komið, og bið um nöfnin á þeim, öllum eða einhverjum. Sá, sem við mig talar (»Jack«), segir, að aðalstjórnand-

inn (»John King«) hafi bannað að nefna nokkurt nafn. Sannanirnar eigi að vera í því fólgnar, að menn þekki manngerfingarnar. Séu mönnum sögð nöfnin, verði sannanirnar veikari. Eg segi, að á ment geti þetta verið rétt, en það geti ekki átt við mig, ókunnan mann úr fjarlægu landi. Geti þeir komið með nöfnin á vinum mínum, sé það góð sönnun. Hann virðist fallast á það, en lofar engu. Og úr því verður ekki heldur.

Mér er sagt, í þessu þjarki, að einn af mínum gestum, kvenmaður, standi nú fyrir aftan mig, og eg er spurður, hvort eg verði ekki var við hann. Eg sný mér við og verð einskis var.

Konurnar eru glaðar mjög og þakklátar. Gestir koma til þeirra þarna á borðinu. En sá er munurinn á mér og þeim, að þær segjast þekkja sína gesti. Ein talar við mann sinn, önnur við dóttur sína, þriðja við bróður sinn. Þær segjast alvanar þessu hjá Husk, og ekki vera í meiri vafa um, við hverja þær tali, en um hitt, að

þær tali hvor við aðra. Fyrir framan eina konuna sé eg koma á borðið litlar, sjálflýsandi hendur. Uppi yfir höndunum heyrist rödd, sem talar við konuna. Hún segir, að þetta sé dóttir sín og sé vön að koma til sín hjá Husk. Móðirin tekur hring af einum fingri sínum og réttir hann höndunum. Hendurnar taka við hringnum og setja hann aftur á fingurinn, þar sem hann hafði verið.

Að manngerfingum loknum, var tekið að þeyta hljóðfærinu fram og aftur uppi yfir okkur, eins og áður, og jafnframt leikið á það. Ekki verður annað heyrt, en að hljóðfærið sé tekið upp um stofuloftið og ómurinn heyrist um stund eins og í herbergi uppi yfir. Þá er eins og það komi niður um loftið aftur — alt af leikið á það — og loks er það sett á borðið, þar sem það hafði áður verið.

Söngur hefst þá, eins og í byrjun fundarins, í loftinu. Og að lokum kveðja gestirnir ósýnilegu og einn þeirra blessar yfir okkur hátíðlega.

Þetta var það helzta, sem á fundinum gerðist. Eg get auðvitað ekki ábyrgst, að ekki hafi verið nein brögð í tafli. Eg þekti ekki húsið, sem fundurinn var haldinn í, og gat ekki vitað, hvort það kynni að vera útbúið til svika. Eg þekti ekki heldur fólkið, sem með mér var á fundinum. Og eg er ekki útfarinn í loddara-brellum.

Að hinu leytinu er mér ekki kunnugt, að nokkuru sinni hafi sannast nein svik á Husk, né heldur að nokkur maður hafi komið með neinar rökstuddar sakargiftir gegn honum. Og ekki getur mér dulist það, hve þetta, sem fyrir mig bar hjá Husk, er líkt ýmsum þeim fyrirbrigðum, sem gerst hafa í Tilraunafélaginu í Reykjavík, fyrirbrigðum, sem bæði eg veit, og margir aðrir vita, að ekki *geta* stafað af neinum svikum. Við Tilraunafélagsmenn höfum fengið tal og söng utan við alla viðstadda. Við höfum fengið hluti flutta úr stað, án þess að þá sé beitt neinu afli, sem við þekkjum. Við höfum heyrt hljóðfæri tekið upp

með sama hætti, og lög leikin á það uppi í ofninu. Og við höfum séð í myrkrinu sjálflýsandi líkami. Svo að það veldur mér ekki neinum sérstökum örðugleikum, að gera mér í hugarlund, að alt hafi verið svikalaust hjá Husk.

En sagan væri ekki nema hálfsögð, ef eg slepti eftirmála, sem gerðist, þegar eg var kominn heim.

Eg gætti þess vandlega að segja *engum* frá líkamningunum hjá Husk fyr en eg hafði haft tal af hinum ósýnilegu gestum Tilraunafélagsins. Svo stóð á þeirri þagmælsku minni, að einn þeirra, stúlka, sem eg hefi aldrei séð, hafði sagt, áður en eg lagði upp í ferðina, að hún ætlaði að vera með mér í ferðinni og gera vart við sig, ef þess yrði kostur hjá einhverjum miðli. Nú vildi eg fá að vita, hvort hún kannaðist við að hafa komið til Husks og hvort hún gæti sagt mér nokkuð af fundinum hjá honum. Þegar kvenlíkamið kom á borðið hjá Husk, kinkaði það kolli, þegar eg spurði, hvort þetta væri sú stúlka.

»N. N.« getum við kallað hana. Og til þess að girða fyrir, að nokkurar fréttir gætu borist til miðils Tilraunafélagsins af þessum manngerfingum í Lundúnum, sagði eg engum frá þeim, annað en það, að manngerfingar hefði eg séð þar.

Á fyrsta tilraunafundi eftir heimkomu mína, sama daginn og eg kom heim, gerði »N. N.« vart við sig. Eg spurði hana, hvort við hefðum setið eins hjá Husk, eins og hér. — »Nei«, sagði hún, »þið sátuð utan um borðið«. Hún sagðist hafa reynt að sýna mér sig á þeim fundi, en illa mundi það hafa gengið, kendi því einkum um, að svo örðugt hefði verið að nota útstreymið frá svo gömlum karli, sem Husk væri. Hún sagði í óspurðum fréttum frá hvíta trafinu, sem hún hefði kunnað mjög illa við, en sett hefði verið á sig, af því að svo illa hefði verið gengið frá neðri hluta andlitsins. Hún sagði frá unga manninum skegglausa, að það hefði verið piltur, sem mér var nákominn, en að

manngerfingin hefði tekist svo illa, að ég hefði ekki getað þekt hann. Hún sagði frá karlmanninum með alskeggið, að það hefði verið enskur maður, sem okkur hefir verið sagt, að mikið hafi verið riðinn við tilraunir okkar. Og hún sagði frá karlmanninum með skeggið á efri vörinni og hökunni, að það hefði verið brezkur rithöfundur, sem hafði samskonar skegg. Eg hafði oft séð myndir af honum, en ekki hafði mér komið hann til hugar í þessu sambandi, fyr en »N. N.« nefndi hann. Og hún sagði, í óspurðum fréttum, að einu sinni á fundinum hefði hún staðið fyrir aftan stólinn minn, og reynt að gera vart við sig, og að leiðinlegt væri það, að sér skyldi ekki hafa tekist það.

Það var með öðrum orðum auðheyrt, að »N. N.« — hver sem hún nú er — vissi alnákvæmlega um allar manngerfingarnar, sem sagt var að syndar væru þarna suðri í Lundúnum mín vegna, og fleira um fundinn.

Eg fullyrði ekkert um það, hvernig

á þeirri vitneskju gat staðið. Var hún sótt í minn huga? Eða var hún komin aðra leið sunnan úr Lundúnum? Eg held því einu fram, að annað eins og þetta sé rannsóknarefni, sem engum manni sé minkun að kynna sér.

Eftir fundinn hjá Husk bað eg um að fá að tala við hann nokkur orð. Systurdóttir hans sagði mér, að hann væri svo lasinn og máttfarinn, að hann væri ekki fær um það. Eg bað þá um nýjan fund, áður en eg færi. Hinir ósýnilegu gestir höfðu virzt mjög áfjáðir eftir, að eg kæmi aftur, sögðust vona, að þá mundi alt takast betur. En mér var sagt, að Husk hefði ráðstafað tíma sínum næstu daga, svo að þess var enginn kostur, þar sem eg var bundinn við skipið, sem átti að fara til Íslands frá Leith mjög bráðlega.

## XXVI.

Nú á eg það helzt eftir, hvernig mér *mistókst*, mér til mikillar gremju,

með þann manninn, sem mér var einna hugleiknast að finna. Maðurinn var ljósmyndarinn, *Boursnell* gamli, sem eg hefi áður sagt frá, að Mr. Stead hafi lagt ríkt á við mig að finna.

Eg lagði af stað til hans með bréf frá Stead. Þar var karli frá því skýrt, að nú væri hann orðinn svo frægur maður, að orðrómur hans væri jafnvel kominn til Íslands, og þess vegna ætlaði bréfberinn að vita, hvað honum tækist o. s. frv. Eftir langa, langa ferð niðri í jörðinni og fyrirspurnir hjá lögreglumönnum á götunni tókst mér að finna húsið.

Þá er mér sagt, að hann sé ekki í Lundúnaborg, og ekki væntanlegur fyr en síðari hluta vikunnar. Þetta var á mánudag.

Eg fór á fimtudag. Mér er sagt, að hann komi ekki heim fyr en síðdegis á laugardag.

Nú sá eg, að alt fór að verða í meira lagi tæpt. Eg ætlaði af stað með járnbrautarlest að sunnudagsmorgni, til þess að ná í Ceres, sem átti að

fara frá Leith áleiðis til Reykjavíkur á mánudagsmorgun En á laugardag síðdegis ætlaði eg að koma til karls, og vita, hvað gerðist. En eftir því sem sem Mr Stead hafði mér af honum sagt, gat eg eins vel við því búist, að hann vísaði mér út tafarlaust.

Mér auðnaðist að fá Boursnell til að annað bréf um mig

Maður heitir *H Blackwell* Hann er ókvæntur maður, eitthvað rúmlega fertugur og býr með ráðskonu í húsi, sem hann á í einni undirborginni Hann hefir braskað í mörgu 30 þúsundum punda sterling hafði hann tapað við árásina, sem Jamieson gerði inn í lönd Búa nokkru á undan ófriðnum með Búum og Englendingum. Um þær mundir, sem eg var í Lundúnum var hann að búa sig undir að vinna kolanámu sem hann hafði eignast í Nova Scotia í Canada. Hann er nafnkendur spíritisti Stead sagði mér, að þann mann ætti eg að finna, því að hann ætti hið mesta safn af svo kölluðum »andamyndum«, sem til

muni vera í verðdinni, og væri allra manna fróðastur um þær tilraunir, sem gerðar hafa verið til þess að ná ljósmyndum af ósýnilegum verum. Stead símaði til hans og spurði, hvort eg mætti koma. Blackwell sagði mig velkominn.

Eg barði að dyrum hjá honum kl. 4 síðdegis á föstudaginn, og hugsaði mér að standa við svo sem hálfa klukkustund, ef húsráðandi hefði svo langa tómstund. En eg slapp ekki fyr en kl. 9 morguninn eftir. Blackwell syndi mér öll kynstur af myndum, sem áttu að vera teknar af framliðnum mönnum, ósýnilegum venjulegum mannsaugum. Og fróðleikur hans um þessar ljósmynda-tilraunir var alveg óþrjótandi, og eins um þau svik, sem í frammi hefðu verið höfð. Ekki var hann í neinum vafa um sæg af þess konar myndum, sem náðst hefðu svika aust. Hann átti eitthvað 3000 slíkar myndir.

Við vorum að rabba saman fram yfir miðnætti, og ymislegt bar á góma. Meðal annars spurði hann mig, hvað

fyrir okkur hefði borið hér heima í í Tilraunafélaginu. Ég sagði honum hið helzta.

Við höfðum báðir verið við fyrirlestur, sem haldinn hafði verið þá í vikunni eitt kvöld í *London Spiritualist Alliance*, með umræðum á eftir. Blackwell spurði mig, hvers vegna ég hefði ekki sagt mönnum frá þessu þar. Ég svaraði, sem satt var, að enginn hefði beðið mig um það, enda sé ekki mælskur á enska tungu, eins og hann mun geta heyrt. Hann sagði, að ef ég hefði sagt mannfjöldanum þar það sem ég hefði sagt sér nú, þá mundi mönnum ekki hafa fundist eftir á sem þeir hefðu annað heyrt það kvöld ð.

Svo það sagði reyndar ritstjóri blaðsins *Light* við mig, þegar við áttum tal um fyrirbrigðin hér heima. Hann taldi víst, að þau væru með allrabeztu líkamlegu fyrirbrigðunum, sem nú væru að gerast í veröldinni, og bað mig að skrifa um þau í blað hans. Því miður hefir ekki orðið úr

því fyrir mér enn, vegna annars annríkis.

Blackwell var mikill vin Boursnells, og sagði, að þann mann yrði eg fyrir hvern mun að finna. Hann trúði ekki öðru, en hann mundi taka mér vel fyrir *sín* orð. Og hann skrifaði honum tafarlaust bréf, sem átti að liggja fyrir karli, þegar hann kæmi heim.

Um nóttina svaf eg í dýrlegasta svefnherberginu, sem eg geri ráð fyrir að mér auðnist að sofna í nokkurn tíma á æfinni. Sá hluti veggjanna, sem ekki var hulinn speglum frá lofti til gólfs, var þakinn dýrindis málverkum. Og um morguninn fylgdi húsráðandi mér á járnbrautarstöðina, og árnaði mér alls velfarnaðar hjá Boursnell um daginn.

Eg kom til hans síðdegis, þegar eg bjóst við, að hann væri kominn heim. Hann *var* kominn heim, og tók á móti mér í dyrunum. Hann var gamall og alþýðumannslegur mjög. Hann hafði fengið bréfin frá Stead og Blackwell, og hann hefði ekki getað tek-

ð mér ástúðlegar, þó að eg hefði verið bróðir hans. Hann fór með mér inn í fátæklega stofu uppi á lofti. Þar var tjaldað fyrir eitt hornið.

Boursnell sá að eg leit á tjaldið.

— Þeir búa sig þarna undir ljósmyndanirnar, sagði hann.

Eg skildi, að *þeir* voru hinir ósýnilegu gestir.

— Það er velkomið, að eg reyni, sagði Boursnel. En eg get það ekki í kvöld. Nú er orðið svo skuggsýnt.

Eg sagði honum, að eg yrði að leggja upp einni stundu fyrir hádegi daginn eftir. Svo hafði mér verið sagt í gistihúsinu, þar sem eg hafðist við. Og því næst varð það að samningum, að eg sendi farangur minn með morgninum beina leið á járnbrautarstöðina með þjóni frá gistihúsinu, en kæmi sjálfur til hans, og færi frá honum rakleiðis til járnbrautarstöðvarinnar.

Og nú þóttist eg þess vís, að alt mundi komast í gott lag, og ætlaði að fara að kveðja karlinn.

— Bíðið þér við, sagði hann. Eg

sé fólk, sem er komið yðar vegna. Þarna er kona að segja eitthvað.

— Heyrið þér nokkuð hvað hún segir? sagði eg.

Eg *skil* það ekki. Það talar útlenda tungu. Nú heyri eg sagt *maður*. Þekkið þér nokkurn framliðinn mann, sem heitir Maður?

Eg sagði honum, að *maður* gæti verið íslenzka, og hvað það merkti þá. En manns-*nafn* gæti það ekki verið.

— Jæja. Eg *get* ekki heyrt, hvað það segir. En eg *sé* það. Og mikið má það vera, ef ekkert kemur á ljósmyndaplötuna á morgun, þegar þér komið aftur.

Nú kvaddi eg karlinn, og hlakkaði til morgundagsins. Hann fylgdi mér ofan stigann og út á stræti, og var alt af að taka það fram, að hann trýði því ekki, að ekki tækist sæmilega á morgun.

Eg hélt heim í gistihúsið. Dyravörðurinn kom á móti mér, þegar eg

kom inn úr dyrunum, og mér sýndist hann með nokkrum áhyggjusvip.

Ætlið þér ekki að leggja upp á morgun? sagði hann, norður til Edinborgar

- Jú. Og ég ætlaði að fara að segja honum, að ég yrði að biðja hann fyrir farangurinn á járnbrautarstöðina.

— Það fer engin lest á morgun þangað! sagði hann niðurlútur

Ég sagði, nokkuð óþolinmóðlega, að hann hefði sjálfur sagt mér um lestina á morgun, og að því hefði ég treyst. Mér varð, sannast að segja, órótt.

Hann kannaðist við, að þetta væri satt, og sagðist ekki skilja, hvernig sér hefði skjátlast svona. En *nú* hafði hann rétt að mæla, hvort sem mér líkaði betur eða ver. Og eftir því varð að haga sér. Ætti ég að komast til Leith á undan brottför Ceres þaðan eftir áætlun, var mér nauðugur einn kostur að legga upp þá þegar um kvöldið.

Og það gerði eg. Áður símaði eg

Boursnell málavexti og bað hann að virða á hægra veg. En viljugur gerði eg það ekki. Eg gat ekki annað hugsað um kvöldið, en að kynlegt og skemtilegt hefði það verið, að koma heim með mynd af einhverjum framliðnum vini mínum, tekna af Boursnell með þessum atvikum — ef þess kynni að hafa orðið auðið. Óhugsandi var það ekki, ef aðrir eins menn og Stead og Blackwel voru ekki gífurlegir ósannindamenn eða alveg einstök flón. Og sjálfur hafði Boursnell beinlínis búist við, að það mundi takast. —

En eftir síðari póstferð *gat* eg ekki beðið.

Efnið í þessa pistla er þá þrotið — nema ef eg læt fljóta með ofurlítið atvik, sem fyrir mig kom í járnbrautarvagninum um nóttina, á leiðinni norður England, og varð mér bæði til hláturs og gremju.

Eg hafði keypt mér bók, sem eg hlakkaði til að lesa á járnbrautarferð-

inni. Bókin heitir *Seen and unseen* og er eftir konu, sem heitir Miss Bates, fyrirtaks ritfæra konu og mikla vinkonu ýmissa hinna helztu manna með Bretum. Í bókinni er skýrt frá ýmsum dularfullum fyrirbrigðum, sem fyrir höf. hafa komið, með mestu snild, sumum óvenjulega merkilegum og fágætum.

Annars flokks vagnar voru ekki í lestinni, sem eg varð að fara með — ekki annað en 1. og 3. flokks. Eg var með nokkura peninga á mér, og kveinkaði mér við að fara í 3. fl. vagni um hánótt. Svo að eg lét vísa mér inn í 1. fl. vagn, bjó þar um mig makindalega, og fann til ánægju út af því, hvað eg væri einstaklega óhultur þarna.

Eg tók bókina upp úr ferðatösku minni og fór að lesa. Framan við meginmálið voru dómar ýmissra merkra manna um bókina, þar á meðal W. T. Steads. Hann segir þar, að sjálfsagt sé að *kaupa* bókina, ekki til neins að

fá hana að *láni* hjá öðrum, því henni verði áreiðanlega *stolið* frá manni, og þá verði ekki hjá því komist að kaupa annað eintak í skarðið. Eg brosti að þessari byrjun og hélt áfram að lesa.

Þá kom maður inn til mín á járnbrautarstöð, sem lestin nam staðar á. Mér þótti það miður. Eg hafði vonað, að eg kynni að geta verið einn um nóttina. Maðurinn var vel búinn og hallaði sér út af í sætinu og fór að sofa. Eg skifti mér ekkert af honum og hélt áfram að lesa.

Eftir dálitla stund fór mig að syfja. Eg lagði bókina hjá mér í sætið, breiddi yfirfrakkann minn ofan á mig og sofnaði. Því næst vaknaði eg við það, að lestin nam staðar og förunautur minn rauk út úr vagnklefanum eins og eldibrandur. Eg reis upp og leit kringum mig.

Bókin var farin. Náunginn hafði stungið henni á sig.

Eg gat ekki varist þess að hlæja að því, hvað Stead hafði reynst mér get-

spakur. En förunaut mínum var eg reiður

Og þá kveð eg lesendurna og þakka þeim fyrir, ef þeir hafa enzt til að hlusta á rabbið. En velvirðingar bið eg þá ef þeim hefir leiðst

## EFTIRMÁLI.

Þegar eg byrjaði á þessum pistlum, bjóst eg hvorki við, að þeir mundu verða eins langir og þeir hafa orðið, né að mér mundi vinnast jafn-seinlega að koma þeim af, eins og raun hefir á orðið.

Mér dylst ekki, að sumir þeirra eru orðnir á eftir tímanum, þegar þeir koma nú út sérprentaðir. Lengra er komið í sögunni í sumum efnum en hér er frá skýrt. Einkum á það við kirkjudeilur Íslendinga í Vesturheimi. En við því verður ekki gert. Þessir pistlar *eru* blaðagreinar, og bera þess auðvitað merki.

Eftir því sem ýmsir hafa við mig

talað, geri eg mér samt von um, að einhverir hafi hug á að eignast pistlana í einni heild.

*Einar Hjörleifsson.*

Reykjavík 14. júlí 1909.

